# ÍSLENZK

# ÆFINTÝRI.

Söfnuð

af

*M. Grímssyni og J. Árnasyni.*

Kosta innfest í kápu 32 skk.

*Reykjavík 1852.*

Prentuð í prentsmiðju Íslands, á kostnað
E. Þórðarsonar.

# Formáli.

Ef vel væri, þyrfti langan formála, til þess að skýra frá eðli og anda þeirra æfintýra, sem hjer koma fyrir almennings augu. En það er hvorttveggja, að rúmið leyfir það ekki að sinni, enda verður slíkur formáli ekki saminn, fyr en safninu væri lokið, en við vonum, að þetta sje að eins hinn fyrsti kafli þess. Í þessu tilliti látum við okkur því nægja með, að drepa á það eitt, að þessi æfintýri eru skáldskapur þjóðarinnar. Þau eru húningur hinnar einföldu hugsunar, sem þjóðin lifir og hefur lifað í. Þar kemur sögulöngun hennar fram og hinn einkennilegi blær, sem frásögur hennar eru vanar að vera hjúpaðar í. Viðburðirnir eru sagðir blátt á fram án allrar orðamælgi eða tilgerðar. Hvað efnið snertir, þá er það mjög ýmislegt og auðugt, og sýnir það opt, á hvaða þekkingarstigi þjóðin hefur staðið; hvað villa og hjátrú — sem nú er kallað — hefur verið rík hjá þjóðinni. Í þessu tilliti eru því æfintýrin harla markverð fyrir menntunarsögu þjóðar vorr-

ar. Þau eru eins konar seinni tíma edda hennar, eða goðafræði, sem tíminn hefur lagað og breytt. Hið illa á hjer einatt í stríði við hið góða, en bíður þó sífellt ósigur fyrir því. Allt er lifandi, eða fullt af lífi; fjöll og hólar eru byggðir af öndum, sem opt og einatt grípa inn í mannlífið, og hafa talsverð áhrif á það. Framúrskarandi lærdómur er eignaður yfirnáttnrlegum öflum, og með honum verður allt sigrað.

Hvað safnið snertir, getum við þess, að það hefur einkum verið okkur hugfast, að aflaga ekkert í meðferðinni, heldur segja það með sömu orðunum, og tíðast er manna á meðal, eins og við vonum, að hver maður sjái. 1. sagan, Selið, er raunar nokkuð öðruvísi sögð, en hjer er, en við vildum ekki breyta því sniði, sem hún hafði fengið hjá þeim, sem við fengum hana hjá. Engum hinna er í neinu breytt með vilja, en þær eru opt sagðar með sínu lagi í hverri sveit, og því getur sumum fundizt, að þær sjeu ekki rjettar.

Kvæðin eru prentuð eptir afskriptum, sem okkur hafa borizt í hendur. Þannig er Róms-riddarakvæði tekið eptir einu handriti norðan úr Húnavatnssýslu. Systrakvæði er tekið eptir 2 handritum, sem bæði voru skrifuð eptir minni, annað austur í Grímsnesi, en hitt suður á Álpta-

nesi. Messu-diktur er og tekinn eptir tveimur handritum; annað þeirra hafði Guðmundur heitinn Skagfjörð skrifað, en hitt er óvíst hver skrifað hefur. Ljúflingsmál (sem og eru kölluð Ljúflingsþáttur, eða Barngælur Ljúflings, eða Ljúflingsdiktur) eru einnig tekin eptir 2 handritum. Annað þeirra var skrifað eptir minni austur í Múlasýslu, en hitt handritið ljeði doktor H. Scheving okkur. Þetta kvæði hefur líklega breytzt töluvert frá því, sem það hefur verið í fyrstu. Í báðum handritunum var 4 erindum fleira, en hjer er prentað, og þó ekki öll þau sömu í báðum, og var þeim kippt úr, af því þeim hafði auðsjáanlega verið bætt í síðar, en kvæðið varð til. Doktor S. Egilsson hefur sýnt okkur þann góðvilja að lesa kvæðin yfir undir prentun, og velja orðamuninn í Ljúflingsmálum, sem honum þótti bezt við eiga. Eptir tilvísun hans er kvæðinu skipt sundur í 5 kafla: 1. kaflinn (1.—5. erindi) er vögguvísur, 2. kaflinn (6.—8.) óskir, 3. kaflinn (9.—11.) heilræði, 4. kaflinn (12. og 13.) spakmæli, og 5. kaflinn (14. og 15.) er niðurlag.

Öðrum eins æfintýrum og þessum hafa nú bæði Danir og Þjóðverjar safnað, hvorir hjá sjer, og þykja þau hvervetna mikils verð. Eru þau í mörgu tilliti lík vorum, og sum þekkjast varla að, nema þá af einhverjum smáatvik-

um, sem eru einkennileg fyrir þá eða þá þjóð. Við getum þessa helzt í þeim tilgangi, að landar vorir fyrtist ekki fyrir það, þó við höfum safnað þessum sögum saman og birt þær á prenti. Þær eru öllu fremur til sóma, en ósóma fyrir þjóðina, og þess vegna eru þær nú komnar á prent. En með því að hjer er að eins fátt eitt komið af því, sem við höfum safnað, hvað þá af öllu, sem til er, þá er það nú vinsamleg og innileg bón okkar, að menn bæði leiðrjetti þær sögurnar eða kvæðin, sem hjer eru öðruvísi, en þeir hafa heyrt þær, og bæti við okkur nýjum, sem hjer eru ekki. Helzt eru það þó sögur um örnefni og þess konar, eða sem eitthvað eru einkennilegar, sem við biðjum um. Þá, sem verða við þessari bón okkar, biðjum við, að veita annaðhvort útgefandanum eða okkur þann kost á viðbótum sínum og leiðrjettingum, sem þeim þykir hæfilegur.

Reykjavík, 16. dag janúarmánaðar 1852.

*M. Grímsson. J. Árnason.*

---

## *Prentvillur.*

3. bls. 9. línu að ofan: þessum. fyrir þessum,. 66. bls. 13. l. að neðan: skoða f. stoða. 77. bls., 1. l. a. n.: hán f. hún. 99. bls. 3. l. a. n.: 109 f. 199.

# Yfirlit efnisins.


| | bls. |
|---|---|
| 1. Selið | 1. |
| 2. Róms-riddarakvæði | 8. |
| 3. Silfrúnarstaða Skeljungur | 13. |
| 4. Barnafoss | 19. |
| 5. Jón Murti | 21. |
| 6. Halla bóndadóttir | 23. |
| 7. Systrakvæði | 31. |
| 8. Svarti skóli | 33. |
| 9. Sæmundur fróði: | |
| a) Sæmundur fær Oddann | 36. |
| b) Púkinn og fjósamaðurinn | 36. |
| c) Kölski ber vatn í hripum | 38. |
| d) Kölski er í fjósi | 39. |
| e) Kölski gjörir sig svo lítinn, sem hann gat | 40. |
| f) Flugan | 41. |
| g) Púkablístran | 41. |
| h) Sæmundur kveðst á við kölska | 43. |
| i) Óskastundin | 44. |
| 10. Abi male spiritus | 46. |
| 11. Ólafur og Helga | 47. |

bls.
12. Galdramennirnir í Vestmannaeyjum . . . . 57.
13. Messu - diktur . . . . . . . . . . . . 63.
14. Sagan af Bjarna Sveinssyni og Salvöru systur hans . . . . . . . . . . . . . 73.
15. Suðurferða - Ásmundur . . . . . . . . . 82.
16. Útilegumannabæn . . . . . . . . . . . 89.
17. Hellismannasaga . . . . . . . . . . . 90.
18. Surtshellir . . . . . . . . . . . . . 99.
19. Glímu - Oddur á Hlíðarenda . . . . . . . 100.
20. Ljúflingsmál . . . . . . . . . . . . 103.
21. Una álfkona . . . . . . . . . . . . 105.
22. Kaupamaðurinn . . . . . . . . . . . 110.
23. Fardagar álfa . . . . . . . . . . . 115.
24. Galdra - Leifi:
a) frá uppvexti Þorleifs og gáfum hans . . 116.
b) Tröllkonan . . . . . . . . . . . 118.
c) Jólanóttin . . . . . . . . . . . 118.
25. Nátttröllið . . . . . . . . . . . . 121.
26. Gilitrutt . . . . . . . . . . . . . 123.
27. Dalakúturinn . . . . . . . . . . . . 127.
28. Legsteinninn yfir Kjartani Ólafssyni . . . . 130.
29. Leiðslan og sjónirnar . . . . . . . . . 132.
30. Syndapokarnir . . . . . . . . . . . . 136.
31. Þorbjörn Kólka . . . . . . . . . . . . 139.



## 1. *Selið.*

Þegar vjer ríðum austan um Lyngdalsheiði vestur á Þingvöll, þá ríðum vjer upp hjá Þrasaborgum. Þar koma saman lönd þeirra bæja, sem liggja umhverfis að heiðinni. Þar er heiðin hæst, og má þaðan sjá víðsvegar um Árnessþing. Þaðan sjest Þingvöllur, Þingvallavatn og Almannagjá. Er hún dimm ílits að sjá, og eins og varnarveggur vestan til við Þingvöll. Hrafnagjá sjest eigi hjeðan; því sá barmurinn er hærri, sem nær er. Hjer er ekki óskemmtilegt að vera, þegar logn er á vatninu á morgnana og fjöllin skoða sig í því báðumegin, eins og í skuggsjá, en ólík eru þau nú því, sem þau voru þá, er þau kváðu undir lögsagnir frelsishetjanna á Þingvelli. Skógarnir eru horfnir úr hlíðunum, og runnar á þá sandskriður. Sólin gyllir reyndar tinda þeirra enn, en vatnið minnir þau á,

hvað þau hafa mist. Hjeðan sjest og Úlfljótsvatn, sem rennur suður úr Þingvallavatni. Þá Álptavatn þar suður af, en Álptavatn rennur aptur um ós þann, sem Árnesingar kalla Sog, suður í Hvítá að austanverðu við Ingólfsfjall. Þá kemur Hvítá úr landnorðri, og sjest bera í hana hjer og hvar milli holtanna. Hún kemur fram fyrir norðan Vörðufell og krækir suður fyrir Hestfjall, og rennur fyrir sunnan Ingólfsfjall; þar hverfur hún sjónum vorum, en þá verður oss litið upp á Ingólfshaug, þar sem Ingólfur landnámsmaður á að vera heygður. Fyrir norðan oss sjáum vjer Kálfatinda, og eru þrír þeirra hæstir. Þeir rísa upp samhliða og eru víðir vellir umhverfis þá að neðan. Það eru Laugarvatnsvellir, þar sem Flosi fylkti liði sínu, áður en hann reið á Þingvöll. Nú ríðum vjer vestur eptir heiðinni, og sjáum þar ekki annað en gráan mosa og stöku graslaut á milli hólanna, sem allir eru lágir og flatir að ofan. Hallar þá ávallt jafnt undan fæti, þangað til vjer komum vestur af heiðinni. Þar komum vjer í brekku eina, sem Dript heitir. Hún liggur vestan og norðan í heiðinni, neðan frá Kaldárhöfða, sem stendur við ósinn, sem rennur úr

Þingvallavatni í Úlfljótsvatn, og nær norður undir Laugarvatnsvöllu. Hana má gjörla sjá af austanverðri Mosfellsheiði. Þessi brekka skilur Lyngdalsheiði frá Þingvallahrauni, og Grímsnesið frá Þingvallasveit. Þegar vjer ríðum nú vestur um brekkuna, sjáum vjer á hægri hönd við oss húsatóptir. — Jeg ætla nú að segja samferðamönnum mínum dálitla sögu af tóptum þessum, og skulum vjer á meðan setja oss niður í brekkuna og hvíla oss.

---

Í fyrndinni var hjer selstaða bóndans í Kaldárhöfða. Solveig hjet dóttir hans, kvenna fríðust og vel að sjer um alla hluti; hún var í selinu. Einn morgun sat Solveig úti undir selveggnum. Veður var hlýtt og heiðríkt lopt. Brekkan var allfögur, og uxu í henni alls konar blóm. Solveigu fór að lengja eptir smalamanni, og gekk upp á brekkuna til þess að vita, hvort hún sæi ekki til hans. En er hún kom upp í miðja brekkuna, veit hún ekki fyrri til, en maður rauðklæddur stendur við hlið hennar. Hann var forkunnar fríður. Hann yrðir á hana að fyrra bragði, og segir: „Sæl vertu, fríða „mey! Jeg hef sjeð þig á hverju kveldi og

„hverjum morgni, þegar þú hefur gengið á kví-„arnar; jeg hef gengið við hlið þjer, en þú hef-„ur ekki orðið þess vör; því þú sjer ekki, nema „það mannlega. Jeg hef opt setið hjá þjer á „kveldin í hrekkunni, og tafið fyrir þjer. Mennirn-„ir vita ekki, hvað í loptinu og í hólunum býr. „Það eru ekki einungis lifandi verur á yfirborði „jarðarinnar, heldur og í loptinu og í miðju „skauti hennar. Eða heldur þú, að allur þessi „ómælandi geimur sje til einskis gjörður af al-„föður? En hvar sem lífið er, þar er einnig „ástin. Hún sigrar mennina, og hún sigrar þær „verur, sem máttkari eru en mennirnir. Hún á „sjer eins stað, og þróast eins innan í hólunum, „eins og utan á þeim. Hún þarf ekki við yls sól-„arinnar; því hún er sjálf sól; hún þarf ein-„ungis andstæði, til þess að hvíla á." — Solveig varð ekkert hrædd, en það var eins og hún gleymdi sjer öldungis, og hún vissi ekki fyrri til, en hún lá í faðmi rauðklædda mannsins. Þá raknaði hún við, eins og úr draumi, og ástin, sem hún hafði áður gjört sjer mjög óljósa hugmynd um, hafði nú gagntekið hjarta hennar. Maðurinn hvarf, og hún var ein. Henni fannst, eins og sig vantaði eitthvað, og sókn-

uður þrýsti að brjósti hennar. Smalinn var kominn á kvíarnar, og hafði hún ekki orðið vör við, þegar hann kom. .

Eptir þetta heimsótti rauðklæddi maðurinn hana opt, og sat hjá henni, en enginn vissi af því, nema þau tvö ein. En svo fór, að Solveig átti barn í selinu, og sat rauðklæddi maðurinn yfir henni, og hafði barnið á burtu með sjer. Eins vitjaði hann hennar samt eptir og áður, á meðan hún var í selinu . . .

Eitt laugardagskveld var sólin að renna til viðar, og sló þá gullroða á jaðrana á skýja bólstrunum, sem voru að hnappa sig saman í loptinu. Himininn var þungbúinn og leit regnlega út; þokubeltin liðuðust um fjallatindana. Fjeð var að renna heim á kvíarnar á bæ þeim, sem heitir á Villingavatni í Grafningi. Húsfreyja sat á bæjardyra-þrepskildinum og var að lyppa og skemmta bónda sínum, sem var að kurla við úti á hlaðinu. Þetta var Solveig og bóndi hennar. Þá voru liðin 12 ár frá atburði þeim, sem áður er frá sagt. „Hvernig ætla veðrið verði á morgun, hjartað mitt,“ segir Solveig, „mjer sýnist hann líta svo regnlega út?“ „Það er ekki að vita,“ segir

bóndi, „mjer þykir líklegast það verði stormur „á útnorðan.“ „Ósköp geispa jeg,“ segir Solveig, „jeg held það sæki einhver að mjer.“ „Þig er líklega farið að syfja, góðin mín,“ segir bóndi, „og það mun vera öll aðsóknin.“ „Nei, „taktu eptir,“ segir hún, „hjer kemur einhver í „kveld.“ Bóndi stendur þá upp og hættir að kurla. Honum verður litið út í túnið og sjer tvo menn koma. „Jeg held þú ætlir að segja satt, „góðin mín; þarna koma tveir menn gangandi.“ Mennirnir komu nú í hlaðið, og var annar roskinn, en hinn ungur og efnilegur. Undir eins og Solveig sjer þá, hleypur hún inn í bæinn og skilur eptir lár og lyppu; svo mikið flýtti hún sjer. Gestirnir báðu bónda að lofa sjer að vera, og það fengu þeir. Ekki ljet Solveig þá sjá sig um kveldið. Um morguninn fóru hjónin til kirkju, og ætluðu að vera til altaris. Þau kvöddu allt heimafólkið með kossi, og báðu það fyrirgefa sjer allt, er þeim hefði á orðið, eins og þá var siður til, og lengi hefur verið. Síðan fóru þau á stað. En er þau komu út í túnið, spyr bóndi Solveigu, hvort hún hafi kvatt gestina. Hún sagði það ekki vera. „Farðu þá „heim aptur, elskan mín,“ segir hann, „og gjörðu

„það, og breyttu ekki út af gamalli venju guð-„hræddra manna.“ „Þessa mun þig lengi iðra,“ segir Solveig, og fer heim grátandi. Bóndi beið hennar stundarkorn, þangað til honum leiddist eptir henni, þá fer hann heim. Finnur hann þá Solveigu í faðmi hins eldra konumanns og voru þau bæði örend, en pilturinn stóð grátandi upp yfir þeim. Sagði hann þá bónda alla söguna, eins og faðir hans hafði sagt honum hana.

Nú er selið í auðn og brekkan moldrunnin. Fjeð er hætt að breiða sig um hlíðina, og sjaldan kemur smalinn þar, af því að hann eigi þar von fjár síns, heldur til þess að ganga um í selinu og hvíla sig á tóptarveggjunum, áður en hann fer upp á heiðina, sem er þung fyrir fótinn af mosanum, og, ef til vill, til þess að vita, hvort hann verði ekki var við huldufólkið í brekkunni. En svo má hann standa upp aptur af selveggnum, að hann sjer það ekki. Þegar bezt lætur, heyrir hann að eins áraglamið hjá huldufólkinu, þegar það rær út á vatnið, og fagnar hann því mjög; því það veit á góða silungsveiði í vatninu.

---

## *2. Róms – riddarakvæði.*

1. Þeim guð veitti vald og frægð,
veraldarauð og fulla nægð,
þótti ei á þessu hægð;
því mun sæmdin verða lægð,
mótgang hljóta mæta oður missa frægð.
2. Fáheyrð saga fyrir mig kom:
frægur greifi sat í Róm,
alls kyns átti auð og blóm,
eignast vill því riddaradóm;
við gröf drottins veitist lýð sú virðing fróm.
3. Húsfrú greifans hafði frjett
háskaför, sem á var sett:
„Þjer hafið auð og háan rjett;
hver er þörf á riddarastjett?“
Ferð hans þessi fjell því eigi frúnni ljett.
4. Hann hirti ekki um hennar svar,
heiman bjóst og stje á far;
hjelt í haf og hraktist þar,
hittu skipið víkingar,
hertekinn af heiðnum kóngi í haldi var.
5, Ærna fjekk hann auðnu skarð,
eign hans fjell í kóngsins garð;
daga hlaut að draga arð,
dvöl um ár í þrældóm varð;
hann sá það gjörla, að settist fyrir hann sjáfar barð.
6. Knjefall veitir kóngsins fót,
kaupið býður lausn á mót;
andsvör fjekk hann ill og fljót:
„utan komi hjer þín snót,
fyrir fjo og bænir fær þú aldrei frið og bót“.

7. Fyrir kóngsins fangavörð
fram bar sína ráðagjörð;
hann ljet ei laun í lofun spörð:
„ljáðu mjer mann í sendiför,
vil hann senda vorri frú á valska jörð.
8. Brjef hans tók, sá bera kann,
burtu gekk og hafskip fann.
Vakur knör í Valland rann;
vífið greifans hitti hann;
hún opnar brjef, sem ort hafði hennar eiginmann.
9. Gremst í hug, þá greifans nauð
glöggt skilur; til lausnar bauð
ríkið sitt og allan auð,
eptir vildi standa snauð;
á heiðið land og hafskip segist heiman trauð.
10. Aptur sendi annað brjef:
„yðar brjef eg fengið hef;
til frelsis yður utan ef
auð og ríkið viljug gef;
hrædd við sjó og heiðið lið því heima tef“.
11. Brúðurin þakkar brjefarekk.
Burt til skips hann síðan gekk,
byr þó ekki fljótan fjekk.
Fljóðið hugsar heim við bekk,
hvernig greifa hjálpa kynni holl og þekk.
12. Hún kringskar hár og krúnu bjó,
kúpu eins og munkur dró,
gígju og hörpu geðlega sló
geysi vel, svo hver mann hló;
ætlun sína engum sagði áður þó.

13. Eptir daga fjögra frest
ferðast burt, sem munkur ljezt;
austmenn fagna góðum gest,
gígja var við síðu fost,
kóngsins hofmenn kórsvein þennan kvöddu bezt.

14. „Hjá kóngum er þjer, herra, hent,
hörpulist er mikil ljent;
í höllu þá þú hefur þjent,
þú hlýtur kaup í staðinn tvennt“;
fróma brúði fengu sjena ei fyrri kennt.

15. Kvendið þakkar kóngsins svein,
kæn þeim ráðum játar sein;
sem munkur, hvílir ætíð ein,
í orðum, sið og lifnað hrein;
ljet í haf og sjóla fann með sæmdar grein.

16. Brjefamuðurinn birtir frá,
brúðurin vilji ei greifann sjá.
Hofmenn kóngsins hana smá;
hann tók brjef og las þar á:
„ei kom frúin, út mun hann lausn því aldrei fá“.

17. Munkur kynnist kóngi brátt,
kátur skemmti síðan af mátt,
gígju ljet hann ganga hátt,
góðan framdi hörpuslátt;
í höllu var þá heiðnu fólki heldur kátt.

18. Spilmanns þessa samhljóð söng
sæt og margs kyns kvæðaföng;
stillir þótti stund ei löng,
staða varð um munkinn þröng,
flykktist þangað fólkið margt, svo fylltust göng.

19. Vænleik munksins furðar fyrst,
fegurð alla, prýði og list,
sælu hefur í salnum gist;
hún sat hjá kóngi og var ei tvist,
gat þó hvergi greifann sjeð í góðri vist.
20. Viku síðar út á skóg
einn gengur, sá forðast róg;
eymd og hryggð í hjarta smó,
hitti hann greifann undir plóg;
þögul hugsar: „þig að leysa þraut er nóg“.
21. Harkar hún af sjer hryggð og fár,
heim á slotið aptur gár;
mánuð heilan munkur klár
milding þjenti síð og ár;
orðlofs beiddi, það andsvar greiddi öðling hár:
22. „Viljið þjer, herra, halda heim,
hjá mjer þiggið auð og seim,
nægða nóg af Rínar eim,
rauð gulls kóróna fylgi þeim;
með ást og gáfum allvel farið yfir geim“.
23. Kvendið segir: „klaustraþjón
kann ei þiggja auð nje frón;
öðling, veit mjer eina bón:
á akri bar mjer fyrir sjón,
valskur maður, sá var minn lengi vinnuþjón“.
24. Gramur kvað þetta gjarnan veitt,
greifa væri frá plógi hleypt.
Áður höfðu hann allir sneypt,
úti var nú kóngsins heipt:
„þeim spilmanni þakka átt, er þig hefur keypt“.

25. Munkur þakkar þessa gjöf,
þaðan býst fyrir utan töf.
Skjótan byr fjekk skikkju vöf,
skundaði svo frú um höf.
En kappinn þessi kepptist samt að Kristi gröf.
26. Fátækt var haas ferðalag,
fremur gekk honum allt í hag:
við helga gröf fjekk heiðurs plag,
heim kom eptir margan dag,
hústrú sinni hermir allt af harmaslag.
27. Frjettu ætt- og ást- menn hans,
að aptur væri kominn til lands;
fagnar greifa múgi manns,
mektuga veizlu prýddi danz,
sat þar rósa - refla rein við síðu riddarans.
28. Hann sagði margt af sinni för,
svo þrældómi og lausnargjöf:
„hústrú mín var heima spör,
hirti hún lítið um mitt fjör“;
grafar sæmd og greifinn munksins greindi svör.
29. „Hvernig kunni jeg, herra kær,
hætta mjer í ferðir þær;
heiðri bar að vægðum vær,
voði hafs ei þótti fær,
í helju kjöri mig, heldur en vera heiðnum nær“.
30. Hann deilir á siaa dýru frú:
„dyggðir þínar reynda jeg nú,
þú ljezt þjer nægja mitt lystugt bú,
lífinu mínu ei varstu trú,
munkur frómur mjer var hollur meir en þú“.

31. Honum rjeð annsa hirðin teit,
að hlaupið hefði úr þessum reit:
„hálft missiri, sem hver mann veit,
hvarf hún burt í aðra sveit;
hennar breytni hvorki er yður holl nje neyt“.
32. Gekk úr höllu gullskorð svinn,
geymdan tók upp búninginn,
kát með gígju kom þar inn;
kvaddi alla munkurinn,
hörpu sló hann, hinum tók að hitna um kinn.
33. Greifa varð í geðinu kátt;
gjörla skilur hann þennan hátt:
„hældi jeg fyrri hörpuslátt,
hofliðinu sagði brátt,
leiksveinn þessi fjekk lífi mínu lausn og sátt“.
34. Sæmdarkvinnan svaraði bert:
„sjálf hef jeg það, herra, gert,
hörpu sló jeg í höllu þvert,
við heiðinn kóng þú kvittur ert;
þeim spilmanni þakklátur og þarfur sjert“.
35. Fjellu gestir fram á knje,
sem fyrri báru róg og spje;
hún ljet þeim gjarnan lausn í tje.
Lofuð mest í virðing sjel
Hærri verður heiður og dyggð, en hefð og fje.

---

## 3. *Sagan um Silfrúnarstaða Skeljung.*

Skeljungur hefur maður heitið. Hann var sauðamaður bóndans á Silfrúnarstöðum í Norð-

urárdal. Skeljungur var mikill maður vexti, ramur að afli, grályndur í skapi, og þótti illur viðureignar. Gætti hann sauða bóndans að seljum þeim, er Bessakot heita, fram á dalnum, og gekk síðla frá þeim á kveldum. Þá voru haldnar glímur á Eireksstöðum undir Skjaldbreið, og var mönnum boðið til glímunnar um allt land. Lágólfur úr Siglufirði gekk til glímunnar, sem segir í sögu Bárðar Snæfellsáss (10. kap.). Þá er Lágólfur kom að sunnan, hittust þeir Skeljungur, er hann kom frá sauðum, á eyrunum fyrir sunnan Silfrúnarstaði. Það var síðla dags. Skeljungur bauð Lágólfi til glímu, en hann vildi ekki skorast undan, þótt hann væri göngumóður. Þeir gengust að fast, og urðu sveiflur miklar. Mæðist Lágólfur fyr, því hann var göngumóður og ferðlúinn. En er Skeljungur finnur það, að Lágólfur tekur að mæðast, hefur hann Lágólf á lopt, og ætlar að hregða honum til sveiflu, en í því gekk fangastakkur Lágólfs í sundur. Verður honum þá laus höndin. Snarast hann þá undir Skeljung, og bregður svo hart við honum mjöðminni, að Skeljungur er þegar allur á lopti. Svífur hann þá niður fall mikið, svo að sundur gengu báð-

ir lærleggirnir[1]. Lágólfur ljet þar Skeljung eptir liggja og gekk braut. Kom hann á glugga á Silfrúnarstöðum, og kvað vísu þessa:

Við sauðamann á Silfrastöðum glímdi
Lágólfur, og braut hans bein,
þar Skeljungur vel sitt mein.

Heim gekk Lágólfur um kveldið. Menn fóru frá Silfrúnarstöðum um nóttina að leita Skeljungs, en gátu ekki fundið hann, því myrkt var orðið. Um morguninn hófu menn leitina af nýju, en fundu ei Skeljung að heldur. Við það urðu menn nú varir, að Skeljungur lá ei kyr. Hafði hann aptur gengið og farið í helli nokkurn fram í fjallinu, er Skeljungshellir heitir, og við hann er kenndur. Nú er hrunið mjög framan af hellinum, og er hann ei nema smuga ein lítil. Ekki varð mein að Skeljungi það sumar. Nú líður veturinn hinn næsti fram að jólum, og varð lítið eða ekkert mein að Skeljungi. En varir þóktust sauðamenn verða við hann, og hugði bóndi, að það væri hræðsla ein og hjegómi. En jólaaptan kemur sauðamaður ekki heim. Ferst það fyrir að leita hans um nóttina. Morguninn eptir var hans

[1]) Hjer segir öðruvísi frá í sögu Bárðar, 10. kap.

leitað, og fannst hann þá í skriðu þeirri, er Hellisskriða heitir, og liggur niður frá Skeljungshelli. Lá hann þar dauður, og var brotið hvert bein í honum. Bóndi lætur dysjà hann, og fær annan sauðamann. Nú líður það ár fram að næstu jólum, og ber ekki á Skeljungi. En jólaaptan fer á sömu leið og fyr, að sauðamaður kemur ekki heim, og fannst hann dauður um morguninn nokkru heimar, en hinn fyrri. Mikið mein þótti bónda að um sauðamannadráp sitt, og fáir vildu nú verða til að gæta sauða hans, en þó fjekk hann hinn þriðja, og fór allt á sömu leið og fyr. Um vorið ræður hann sjer hjú, en fær nú engan, sem vill gæta sauða hans, og líður svo af sumarið. Um haustið í rjettum kemur til hans maður. Sá kvaðst Grímur heita. Hann skorar á bónda til veturvistar. Bóndi gjörir honum kost á því, ef hann vilji gjörast sauðamaður hans. Grímur spurði, hvort þar væri nokkuð vandhæfi á, er hann hefði enn eigi ráðið sjer sauðamann. Bóndi kvað svo vera, og sagði honum, hvernig farið hefði um hina fyrri sauðamenn sína. Grímur kvaðst því fúsari að gjörast sauðamaður hans, sem þar væri meiri þraut við. Tekur nú Grímur við

fjárgeymslunni, og líður svo fram að jólum, að eigi verður vart við Skeljung. Jólaaptan skilur Grímur við sauðina löngu fyrir dagsetur, og gengur heim. Líður svo fram að háttatíma, að ekki verður vart við Skeljung. Fólk allt svaf í skála einum miklum fram í bænum, og voru útidyr á skálanum, og þil ramgjört framan undir. Grímur leggst niður utarlega í skálanum, þar sem hann var vanur að sofa, en fólkið allt innar frá. Grímur hafði öldungshúð mikla yfir sjer. Þegar að leið miðri nóttu, vöknuðu menn í skálanum við dunur miklar og dynki, verður þá fólkið hrætt mjög og grúfir sig niður. Færast nú dunurnar nær, og er þetta Skeljungur. Hann kemur að skáladyrum, knýr fast hurðina, og hrindir henni upp. Skyggnist hann þá inn um skálann, og sjer, hvar Grímur er. Tekur hann þá til húðarinnar, og kippir að sjer, en Grímur hjelt í á móti, og spyrndi í þilið. Toguðust þeir nú um húðina, uns undan gekk þilið allt. Grímur snaraði þá undir sig húðinni, og ljet Skeljung draga sig á henni frá bænum, þar til er þeir eru komnir á hæð nokkra skammt þaðan. Þar stóð steinn einstakur á hólnum, er tók meðalmanni í öxl. Sleppir þá Grímur

húðinni og ræðst að Skeljungi. Taka þeir fang saman, og verða nú sviptingar miklar. Finnur Grímur það skjótt, að eigi hefur hann afl við Skeljung. Bregður hann honum þá til sniðglímu, og kemur Skeljungur niður fall mikið á höfuðið. Tekur þá Grímur sverð sitt, og ristir reip af húðinni, en borar þrjú göt á steininn. Þar dregur hann reipið ígegnum, og bindur svo Skeljung þar við. Fer hann síðan heim, og ætlar að sækja eld til að brenna drauginn. En þegar hann kemur aptur, er hæði steinninn og draugurinn horfinn. Þykist hann nú vita, að draugurinn muni hafa haldið fram eptir dalnum. Gengur hann þá fram dalinn, þar til hann kemur á hól annan, sem nú heitir Skeljungshóll. Þar finnur hann drauginn, og brennir hann til ösku. Tekur síðan öskuna og kastar henni í Silungapoll, sem var skammt burtu þaðan.

Steinninn er enn á Skeljungshóli, og sjást tvö götin, en hið þriðja segja menn að sje sokkið í jörðu niður. Steinninn er flatvaxinn nokkuð og aflangur. Ávalur er hann til hliðanna. Það, sem upp úr jörð stendur, tekur svo sem í mjöðm á meðalmanni. Götin eru hvort niður undan öðru, og langt bil á milli. Þau eru eins og þau væru boruð með nafri, og svo víð, að tveim fingrum má stinga í þau. Ei er hann meira en dönsk alin á þykkt., en töluvert er hann lengri á breiddina.

Það vita menn, að Norðurá, sem rennur eptir dalnum, hefur áður runnið miklu vestar, en nú rennur hún, en það var kvísl úr henni, sem Grímur kastaði í öskunni. Þar er nú aðalfarvegur árinnar, og er sagt, að Silungapollur hafi þar verið hylur í kvíslinni, fram undan Skeljungshóli, sem nú er strengurinn í ánni. Sagan segir, að allur silungur hafi þá drepizt í hylnum, er askan kom í hann, en tveir silungar hafi orðið úr öskunni, báðir svartir að lit. Það er og sagt, að annar þeirra hafi einhverju sinni verið veiddur. Var hann þá skorinn í sundur í marga hluti, en skreið jafnóðum saman aptur.

## 4. *Barnafoss.*

Það er sagt, að eptir það að Músa-Bölverkur í Hraunsási veitti Hvítá í gegnum ásinn[1], hafi verið steinbogi á ánni sjálfgjörður. Einu sinni bjó í Hraunsási kona ein gömul og forn í skapi. Hún átti tvo sonu stálpaða. Einn sunnudag fór hún og allt heimafólk hennar til kirkju upp að Gilsbakka, því þangað átti þá Hraunsás kirkjusókn, svo að enginn var eptir heima, nema sveinarnir. Móðir þeirra tók þeim vara fyrir að fara frá bænum, á meðan hún væri í burtu. En þegar fólkið var farið, reikuðu sveinarnir upp á ásinn, og rjeðust þá í að

[1]) Landn. Kh. 1843, 67. bls.

fara á eptir kirkjufólkinu, því þeir sáu til þess í hópum fyrir handan ána. Þeir gengu nú að steinboganum, en hann var mjór og hátt nokkuð frá vatninu, en foss var undir honum. Sveinarnir tóku þá höndum saman og leiddust út á bogann. En þegar þeir voru komnir út á hann, varð þeim litið niður fyrir sig í iðuna, og þá sundlaði þá, svo þeir fjellu út af boganum ofan í ána. — Þegar fólkið kom heim, fundust sveinarnir hvergi. Móðir þeirra ljet leita þeirra, en það kom fyrir ekki. Frjetti hún þá, hvernig á stoð; því einhver hafði sjeð til sveinanna, en orðið of seinn til að hjálpa þeim. Reiddist þá gamla konan, og ljet höggva steinbogann af ánni, með þeim ummælum, að þar skyldi enginn framar lífs yfir komast. Fossinn er síðan kallaður Barnafoss. — Móðir sveinanna hjet því nú, að hún skyldi gefa þeirri kirkju jörð sína Norðurreyki, sem þar ætti sókn að Hvítá, er líkin ræki á land, en þeirri kirkju, sem þau yrðu grafin við, skyldi hún gefa Hraunsás og Húsafell í legkaup. Nokkru seinna rak lík sveinanna á land hjá Norðurreykjum, en það var í Reykjaholtssókn. Sveinarnir voru jarðaðir í Reykjaholti, og fjekk því

Reykjaholtskirkja allar jarðirnar, og á hún þær enn í dag.

---

## 5. *Jón Murti.*

Einu sinni í fyrndinni bjó ríkur bóndi í Síðumúla í Hvítársíðu. Hann átti dóttur eina afbragðs væna og fríða. Margir urðu til að biðja hennar, og þar á meðal bóndinn á Sleggjulæk í Stafholtstungum, og bóndasonurinn á Fróðastöðum. Lauk svo, að bóndasonurinn á Fróðastöðum varð hlutskarpastur, og var honum föstnuð konan. Síðan var brúðkaupsdagur á kveðinn og fjölmenni boðið til veizlunnar. Sleggjulækjarbóndanum sveið þetta mjög, og fjekk hann mann einn, sem boðinn var til veizlunnar í Síðumúla, til þess að vega brúðgumann. Sá er nefndur Jón, er til þessa varð. Jón var maður hraustur og djarfur. Hann fór nú til boðsins, eins og aðrir, og ljet á engu bera. Leið svo að kveldi, og stóðu menn upp frá borðum. Skuggsýnt var við stofudyrnar, og stóð Jón þar og beið þess, að brúðguminn kæmi út. En er hann kom, lagði Jón hann í gegn með sveðju, er hann hafði haft hjá sjer. Fjell þá brúð-

gumінn dauður niður og flaut í blóði sínu. Jón tók þegar á rás, og var honum veitt eptirför. Hljóp hann þvert niður völlinn og ofan að Hvítá og þar að henni, sem hún fellur í gegnum ás einn milli hamra tveggja. Eigi hikaði hann þar við, heldur stökk hann yfir á klettunum, og eru það nú 16 álnir danskar á milli þeirra. Er þar straumur mikill í þrengslinu, og kalla menn það Kláffoss. Syðri hamarinn er lægri miklu, en hinn nyrðri, og á það að hafa ljett Jóni hlaupið. — Nú er að segja frá boðsmönnum, að þeir treystust ekki til að stökkva yfir ána á eptir Jóni, nje heldur til þess, að leita hans meira um nóttina; því þá var skuggsýnt orðið. Daginn eptir hófu þeir leitina að nýju, en fundu þó ekki Jón. Hann var alveg sloppinn úr höndum þeirra, og ætluðu menn síðan, að hann mundi hafa komizt á skip og farið utan. En eptir víg þetta var hann ætíð kallaður Jón Murti. —

En það er frá brúðgumanum að segja, að hann dó þegar í höndum boðsmanna þeirra, sem yfir honum stumruðu. Var hann síðan grafinn að kirkjunni í Síðumúla. Hafa menn þar enn til sýnis legstein hans, og liggur hann beint fram

undan kirkjudyrum. Hann er rúm hálf þriðja alin á lengd, ávalur fyrir báða enda og íflatur að ofan. Einhver högg eru í þá hlið á steininum, sem upp snýr, og á það að vera mannsmynd ofan að brjóstum, og sárið með blóðlækjunum. Ekkert letur er, nje litur út fyrir að hafa verið nokkurn tíma á steininum.

Þegar þetta varð, segja menn, að hver hafi verið vestur á mel þeim fyrir utan túnið í Síðumúla, sem heitir Stuttimelur. Þar eru nú hvítleitar hellur, en enginn hver. Kom það af því, að hin blóðstorknu klæði brúðgumans voru þvegin í hverinn, og flutti hann sig þá, kom upp snöggvast, eða hvildi sig, í laugunum í Síðumúla, en hvarf þaðan aptur, og er nú hinn meiri hverinn á Hurðarbaki fyrir sunnan Hvítá. En það er almenn trú, að ef saklauss manns blóð er þvegið í laug eða hver, þá flytji hann sig þegar á burtu. Þó er það ekki ætíð orsökin til þess, að hverir flytji sig.

---

## 6. *Halla bóndadóttir.*

Einu sinni fóru margir Skagfirðingar á grasafjall. Voru þar bæði karlar og konur, og lágu þeir við tjald suður á heiðinni. Ein af stúlkunum hjet Halla. Hún var dóttir bónda eins í Skagafirði. Var hún fríð sýnum, og á tvítugs aldri. Svo bar við, að hana syfjaði mjög

í einni göngunni, og lagði hún sig fyrir á rúst einni, en fólkið var þar í kring. Bað hún kvennmann einn að vekja sig bráðum aptur. Halla sofnaði skjótt, en þoka var mikil. Þegar Halla vaknaði, sá hún engan mann, og varð hún þá hrædd, og ætlaði að hlaupa til grasafólksins, en hljóp í allt aðra átt. Fór hún svo lengi. Kemur þá að henni maður ríðandi. Hann var mikill vexti og þreklegur. Hann spyr hana, því hún sje ein. Hún segir, að þeir, sem hún sje með, sjeu skammt þaðan: „eða sástu ekki „fólk á leið þinni"? „Jú", segir maðurinn, „það „er skammt hjeðan, og er jeg að leita að hest„um, sem struku frá mjer; því jeg er hjer líka á „grasafjalli. Viltu ekki", segir hann, „að jeg „fylgi þjer til fólksins"? „Jú, það vil jeg", segir Halla. „Seztu þá á bak fyrir aptan mig", segir aðkomumaður. Halla vildi það ekki; því henni stóð stuggur af manninum. Gekk hún svo með honum stundarkorn. Sagði hann þá, að hún skyldi koma á bak með sjer, svo þau yrðu fljótari. Halla ljet þá til leiðast, og settist á bak hjá manninum. Hleypti hann þá hestinum og reið slíkt sem af tók. En er langur tími var liðinn, segir Halla, að sjer þyki æði

langt til fólksins. Maðurinn segir, að það fari nú að styttast. Ljet hún hann þá ráða; því hún sá, að hjer var eigi til góðs að gjöra. Riðu þau svo, þar til er þau komu í dal nokkurn eigi alllítinn. Þar sá Halla bæi marga, og þó einn mestan. Þangað hjeldu þau. Þegar þau komu í hlaðið, stigu þau af baki, og gengu inn. Var þar margt manna fyrir, og þar á meðal sá hún menn tvo unga og vígamannlega. Segir þá maðurinn, sem hafði tekið hana, við þá: „Takið nú við meyjunni, og geymið hana ekki ver, en jeg hef aflað hennar“. Þeir tóku þá við Höllu, og fengu hana stúlkum tveimur ungleg-um. Þær voru glaðar og kátar, og vildu allt gjöra Höllu til skemmtunar, en hún undi sjer illa, og neytti hvorki svefns nje matar. Stúlk-ur þessar höfðu sterkar gætur á Höllu, og ljetu hana sofa á milli sín. Halla sá konu eina gamla á bænum, og skipti hún sjer af engu, er fram fór. Um sumarið gekk Halla að hey-vinnu með hinum stúlkunum, og leið svo fram á sláttinn. Einn góðan veðurdag lá hey mikið flatt hjá dalbúum, og voru allir önnum kafnir að hirða og binda heyið. Þá kemur gamla kon-an að máli við Höllu, og segir: „Þú unir þjer

„illa, stúlka mín! og er það von. Skal jeg nú „kenna þjer ráð til að komast á burtu. Þú „skalt vita, að þú ert nú komin í Ódáðahraun, „og eru hjer sjö dalir í hrauninu. Er þessi „dalurinn mestur og fjölbyggðastur, og liggur „nær því í miðju hinna dalanna. Þessir þrír „karlmenn, sem þú hefur sjeð hjer, og eru meiri „öllum hinum, ætla nú innán fárra daga að halda „brúðkaup sitt, og eiga yður, þig og stúlkurn-„ar, sem hafa gætt þín í sumar. Veðjuðu dal-„búar um það, að engin stúlka væri jafnfögur „og þú í Ódáðahrauni, og ræntu þjer svo. Er „þjer nú vorkun, þó þú unir illa hjá útilegu-„mönnum, og hef jeg sjálf reynt það, að verða „að skilja við alla mína, því jeg er líka rænd „úr sveit. Nú uni jeg mjer allvel, og mun jeg „líka skammt eiga eptir æfi minnar. En jeg „ætla nú að kenna þjer ráð, til að komast í „burtu. Skaltu í kveld ganga til hvílu á und-„an öllum öðrum, og látast þegar sofna. En „þegar allir eru háttaðir, skaltu reyna að fara „á fætur, og þá mun jeg hafa til nesti og skó „handa þjer, og segja þjer til vegar". Slíta þær nú talið, og þótti Höllu vænt um þetta. Kepptist hún nú við um daginn, og var hin

kátasta. Um kveldið fór Halla heim á undan öllum, og gekk til hvílu, og ljezt hún sofa, þegar fólkið kom. Hjeldu menn, að hún væri lúin orðin, og því hefði hún gengið svo snemma til hvílu. Stúlkurnar háttuðu hjá henni, og sofnuðu fast. En þegar allir voru sofnaðir, rís Halla upp, og klæðir sig. Finnur hún þá kerlingu, og hefur hún þar nesti og skó, og fær Höllu. Segir þá kerling: „Nú skaltu ganga „hjer austur dalinn, og upp hjá felli því, sem „þú sjerð við dalbotninn. Þú skalt fara að „sunnanverðu við fellið, og þar muntu finna „fyrir þjer götuslóða. Þá skaltu ganga, og mun „þá verða fyrir þjer jarðfall mikið, og þar kem- „ur þú á breiðan veg ruddan. Þann veg skaltu „fara, þangað til þú kemur í byggð. Að jarð- „fallinu muntu verða komin um sólarupprúna, „og skaltu þar fela þig á morgun; því þú skalt „vita það, að leitað mun þín verða, og ef þú „finnst ekki, munu dalbúar berjast um veð sitt, „því þá hafa þeir þig ekki sjálfa, og vita svo „eigi, hver unnið hefur“.

„Farðu heil, dóttir góð! og far þú varlega „og flý hið skjótasta“, segir kerling. Halla þakkar henni ráð sín, og skildu þær með tár-

um. Fer þá Halla af stað eptir leiðsögu kerlingar, en kerling fer inn aptur í bæinn. Er það nú af Höllu að segja, að allt fer eins og kerling hafði sagt henni. Kemur hún á slóðana hjá fellinu, og svo að jarðfallinu. Er þá sól á lopt komin, og fer Halla niður í jarðfallið, og leggst undir skúta einn við bakkann. Að lítilli stundu liðinni heyrir hún dyn mikinn og mannamál. Sjer hún þá fjölda manna ríða niður með jarðfallinu. Þeir fóru geist, og voru að tala um Höllu. Sögðu sumir, að hún hefði líklega hlaupið suður í hraunið og drepið sig. Líður svo dagurinn. Um kveldið koma þeir aptur. Stígur þá einn þeirra af baki við jarðfallið, þar sem Halla lá. Það var unglegur maður, og ekki ólaglegur. Hann segir: „Hjer mun Halla vera“, og hleypur yfir jarðfallið, og skyggnist undir bakkann. Verður þá Halla hræddari, en frá megi segja, en liggur þó kyr. Maðurinn hleypur aptur yfir jarðfallið og segir: „Ekki er Halla hjer“. Ríða þeir síðan burt, en Halla rís upp, og hefur sig til ferðar. Gengur hún þá brautina, eins og kerling hafði sagt henni, og fer nú það, er hún má, uns hún kemur til byggða. Kemur hún þá að prestsetri einu.

Hún finnur prest, og biður hann að taka við sjer. Segir hún honum alla sína raunasögu. Prestur tók við henni fúslega, og var Halla þar um veturinn. Sumarið eptir rjeðist hún til ársvistar hjá presti. Prestur hjelt og aðra vinnukonu, og voru þær mjög saman, hún og Halla. Um sumarið komu menn tveir til prests, og báðu hann að taka sig fyrir kaupamenn. Prestur gjörði það. Annar þessara manna var hniginn mjög á efra aldur, og var hann illilegur mjög. Hinn þar á móti var ungur maður að aldri, og fagur sýnum. Hann hjet Björn. Það var síður um sumarið, að vinnukonur prests báru kaupamönnum litlaskattinn til skipta. Einu sinni, þegar Halla fór með matinn, segir hinn gamli maður: „Gott væri að skera, gaman væri að rista“. Þá segir Björn: „Þegi þú, eða jeg drep þig“. Halla varð hrædd, þegar hún heyrði þetta, og fór heim. Sagði hún þá presti frá orðum kaupamanna, og kvaðst ekki þora að vera þar, á meðan þeir væru þar, kaupamennirnir. Prestur sagði, að hægt væri að ráða bót á því, „og skal jeg hafa á þjer kvennaskipti“. Kom hann þá Höllu til næsta bæjar í kvennaskiptum. Þar stóð svo á, að Halla átti að

mjólka ærnar með annari stúlku, en klettur hár var í túninu milli kvíanna og bæjarins, svo ekki sáust þær að heiman. Einu sinni bar svo við, að vinnukonan hin fór heim af kvínnum með fyrirmjöltina, en Halla var að hreyta eptir. Gjörði þá regnskúr, svo vinnukonan kom ekki aptur. En er Halla fór heim, fór hún undir klettinn, og ætlaði að standa þar af sjer skúrina. Kemur þá að henni kaupamaðurinn Björn, og heilsar henni. Hún tekur kveðju hans, og verður nú hrædd mjög. Björn segir, að hann var sá, er hljóp yfir jarðfallið, „og sá jeg þig, „en vildi ekki segja til þín. Karlinn, sem með „mjer er, vildi drepa þig, því hann misti son sinn „í bardaganum, sem varð milli dalbúa út af „fegurð þinni. Skal jeg nú verja þig fyrir hon„um, en þó með þeim kosti, að þú launir mjer nú „þagmælskuna, þá er jeg sá þig í jarðfallinu, „og heitir mjer tryggðum". Halla þorði ekki annað, en gjöra vilja Bjarnar. Síðan skildu þau; en opt fundust þau eptir þetta um sumarið. Þegar úti var slátturinn, fóru kaupamennirnir burtu, og Halla til prestsins. Um veturinn kemur Björn til prests, og biður hann að útvega sjer jörð í sveit sinni, og bústýru: því hann

kveðst vilja vera þar. Halla hafði sagt presti, hvernig farið hafði um sumarið, og það, að hún var með barni af Bjarnar völdum. Segir þá prestur við Björn, hvort hann sje ekki ánægður, ef hann gæti fengið Höllu fyrir bústýru. Björn játti því, og var það nú gjört, að Björn skyldi fá Höllu um vorið, og taka þar jörð í sveitinni En um veturinn átti hann að láta foreldra Höllu fá að vita það allt, hvað um hana var orðið, og vita hvernig þeim liði. Björn fór því næst burtu, og norður í Skagafjörð. Sagði hann foreldrum Höllu alla hennar hrakningssögu, og svo, hvar hún þá væri. Fjekk hann þá leyfi foreldranna til að eiga Höllu. Um vorið kom hann austur aptur. Tók hann þá Höllu, og átti hana, og settist þar að búi í sveitinni. Um haustið sótti hann mikinn fjölda sauða inn í Ódáðahraun, en um vorið hafði hann komið með ógrynni ásauðar. Hann átti tvo sonu við konu sinni, og voru þeir ójafnaðarmenn miklir og ódælir.

---

## 7. *Systrakvæði.*

1. Þorkell átti dætur tvær
(leikara dýr í skógi),

langt á morgna sváfu þær
(frúinnar sómi, vel frúinnar sómi).
2. Sváfu þær svo lengi (l. d. í s.).
að sólin skein á mengi (f. s. v. f. s.).
3. Sváfu þær svo langa stund (l. d. í s.).
sólin skein á heiðar mund (f. s. v. f. s.).
4. Gengu þær til brunna (l. d. í s.),
þvoðu hendur og munna (f. s. v. f. s.).
5. Gengu þær til kirkju (l. d. í s.),
toguðu á sig skikkju (f. s. v. f. s.).
6. Gengu þær á björgin fram (l. d. í s.),
hittu fyrir sjer háan mann (f. s. v. f. s.):
7. „Heilar þið og sælar"! (l. d. í s.)
þær vildu ekki mæla (f. s. v. f. s.).
8. „Ei erum við svo sælar (l. d. í s.),
við viljum ekki mæla" (f. s. v. f. s.).
9. „Þorkels dætur eru þið" (l. d. í s.).
„Maríukirkju þjónum við" (f. s. v. f. s.).
10. „Hvort viljið þið heldur láta ykkar líf (l. d. í s.),
eða vera mín eigin víf"? (f. s. v. f. s.).
11. Svaraði sú hin yngri (l. d. í s.):
„hvor mun þrautin þyngri"? (f. s. v. f. s.).
12. Svaraði sú hin eldri (l. d. í s.):
„dauðann kýs jeg heldur" (f. s. v. f. s.).
13. Tók hann upp sinn týgilknif (l. d. í s.),
systra beggja sveik hann líf (f. s. v. f. s.).
14. Stje hann á sinn gráa hest (l. d. í s.),
allra manna reið hann mest (f. s. v. f. s.).
15. Kom hann þar að kveldi (l. d. í s.),
sem Þorkell rjeð fyrir veldi (f. s. v. f. s.).

16. Klappar á dyr með lófa sín (l. d. í s.):
„ljúktu upp, Ása litla mín“ (f. s. v. f. s.).
17. „Jeg læt hjer engar lokur frá (l. d. í s.)
hjer stár engin þerna hjá“ (f. s. v. f. s.).
18. Nettar hafði hann fingur og smá (l. d. í s.)
með listum plokkar loku frá (f. s. v. f. s.).
19. „Ása litla, sof hjá mjer (l. d. í s.),
silkisekkinn gef jeg þjer“ (f. s. v. f. s.).
20. „Leys upp sekk og lát mig sjá“ (l. d. í s.).
Systra klæðin þekkti hún þá (f. s. v. f. s.).
21. Stje hún í það húa lopt (l. d. í s.);
hennar faðir svaf þar opt (f. s. v. f. s.).
22. „Statt' upp, Þorkell, faðir minn (l. d. í s.)!
hjer er dætra baninn þinn“ (f. s. v. f. s.).
23. Þorkell kastar hörpu á gólf (l. d. í s.);
stukku úr henni strengir tólf (f. s. v. f. s.).
24. Þorkell kastar í annað sinn (l. d. í s.),
stukku úr henni strengir fimm (f. s. v. f. s.).
25. „Velkominn, Gunnar, mágur minn (l. d. í s.);
nú er í boði mjöður og vín“ (f. s. v. f. s.).
26. Reif hann í hans gula lokk (l. d. í s.),
hjó hann niður við hallarstokk (f. s. v. f. s.).
27. Þorkell leit í austur heim (l. d. í s.),
logaði ljós yfir systrum tveim (f. s. v. f. s.).

---

## 8. *Svartiskóli.*

Það er sagt, að í svartaskóla lærðu menn galdur. Sumir segja, að skóli þessi hafi verið á Þjóðverjalandi, en aðrir, að hann hafi verið í

Parísarborg á Frakklandi. Þar var svo háttað, segir sagan, að skólinn var í jarðhúsi einu rammgjörvu, og var enginn gluggi á því, svo þar var ætíð niðamyrkur inni. Enginn var þar kennari, og námu menn allt af bókum, sem voru ritaðar með eldrauðu letri, svo lesa mátti í myrkrinu. Aldrei máttu þeir, sem þar lærðu, koma undir bert lopt, eða sjá dagsljósið, fyr en þeir fóru alfarnir burtu þaðan, og þurftu þeir að vera þar 3 eða 7 vetur; því ekki voru þeir fyrri fullnuma. Hönd ein grá og loðin kom á degi hverjum inn um vegginn, og rjetti að skólapiltunum mat þeirra. En það áskildi hann sjer, sem skólann hjelt, að hann skyldi jafnan eiga þann, er síðastur gekk af þeim, sem út fóru úr skólanum á ári hverju. En það var kölski, sem hjelt skólann, og voru menn því ófúsir á að ganga síðast, þegar þeir fóru. Einu sinni voru þeir þar þrír Íslendingar: Sæmundur hinn *fróði*, sem seinna varð prestur í Odda, Kálfur Árnason og Hálfdan Eldjárnsson eða Einarsson, sem seinna varð prestur að Felli í Sljettuhlíð. Þeir áttu allir að fara burtu í einu, og bauðst Sæmundur til þess, að ganga síðastur. Hann varpaði yfir sig kápu mikilli, og hafði ermarn-

ar lausar, og ljet hana vera óhneppta. En þar voru rið nokkur upp að ganga úr skólahúsinu, og er Sæmundur kom á riðið, þreif kölski í kápu hans og segir: „þig á jeg.“ Varpaði Sæmundur þá af sjer kápunni, og hljóp út. En járnhurðin rumdi á hjörunum, og skall aptur, og svo fast á hæla Sæmundar, að hælbeinin særðust. Þá sagði hann: „skall þar hurð nærri hælum“, og er það síðan orðið að máltæki. Þannig komst nú Sæmundur burtu með fjelögum sínum.

Aðrir segja svo frá, að þegar Sæmundur gekk upp riðið, og kom út í dyrnar á skólanum, þá skein sólin á móti honum, og kastaði skugga hans á vegginn. Þegar kölski ætlaði nú að taka Sæmund, þá mælti hann: „Jeg er ekki seinastur; sjerðu ekki þann, sem á eptir mjer fer“? Kölski þreif þá til skuggans, og ætlaði, að þar mundi maður fara, en Sæmundur slapp, og hurðin skall aptur á hæla honum. En upp frá þeirri stundu var Sæmundur jafnan skuggalaus; því kölski sleppti ekki skugga hans aptur.

---

## *9. Sæmundur fróði.*

### a) Sæmundur fær Oddann.

Þegar þeir Sæmundur, Kálfur og Hálfdán komu úr svartaskóla, var Oddinn laus, og báðu þeir þá allir konunginn um að veita sjer hann. Konungurinn vissi, við hverja hann átti, og segir, að sá þeirra skuli hafa Oddann, sem fljótastur verði að komast þangað. Fer þá Sæmundur þegar, og kallar á kölska, og segir: „syntu nú með mig til Íslands, og ef þú kem„ur mjer þar á land, án þess að væta kjóllafið „mitt í sjónum, þá skaltu mega eiga mig“. Kölski gekk að þessu; brá sjer í selslíki og fór með Sæmund á bakinu. En Sæmundur var á leiðinni einatt að lesa í Saltaranum. Voru þeir eptir lítinn tíma komnir undir land á Íslandi, og slær þá Sæmundur Saltaranum í hausinn á selnum, svo hann sökk, en Sæmundur fór í kaf og synti til lands. Með þessu var kölski orðinn af kaupinu, en Sæmundur fjekk Oddann.

### b) Púkinn og fjósamaðurinn.

Sæmundur hjelt einu sinni fjósamann, sem honum þótti vera um of blótsamur, og fann opt að því við hann. Sagði hann fjósamanni, að kölski hefði blótsyrði og illan munnsöfnuð

mannanna handa sjer og púkum sínum til viðurværis. „Þá skyldi jeg aldrei tala neitt ljótt“, segir fjósamaður, „ef jeg vissi, að kölski missti við það viðurværi sitt“. „Jeg skal nú bráðum vita, hvort það er alvara, eða ekki“, segir Sæmundur, og ljet nú púka einn í fjósið. Fjósamanni var illa við þennan gest; því púkinn gjörði honum allt til meins og skapraunar, og átti þá fjósamaður bágt með að stilla sig um blótsyrði. Þó leið svo nokkur tími, að honum tókst það vel, og sá hann þá, að púkinn horaðist með hverju dægri. Þótti fjósamanni harla vænt um, er hann sá það, og blótaði aldrei. Einn morgun, þegar fjósamaður kom út í fjósið, sjer hann, að allt er brotið og bramlað, og kýrnar allar bundnar saman á hölunum, en þær voru margar. Snýst hann þá að púkanum, sem lá í vesöld og volæði á básnum sínum, og hellir yfir hann bræði sinni með óttalegum illyrðum og hroðalegu blóti. En sjer til angurs og skapraunar sá hann nú, að púkinn lifnaði við og varð allt í einu svo feitur og þriflegur, að við sjálft lá, að hann mundi hlaupa í spik. Stillti hann sig þá, fjósamaðurinn, og hætti að blóta. Sá hann nú, að Sæmundur prestur hafði

satt að mæla, og hætti að blóta, og hefur aldrei talað ljótt orð síðan. Enda er sá púkinn fyrir löngu úr sögunni, sem átti að lifa á vondum munnsöfnuði hans. — Betur að þú og jeg gætum breytt eptir dæmi fjósamannsins!

c) Kölski ber vatn í hripum.

Svo bar til einn vetur, að maður kom til fjósakonu Sæmundar, og bauð henni að sækja allt vatn fyrir hana um veturinn, bera út mykjuna og fleira þess konar, ef hún vildi gefa sjer það í staðinn, sem hún hefði undir svuntu sinni. Fjósakonu þótti þetta boð gott, því hún hugsaði ekki eptir því, að hún var þunguð, og mundi ekki til þess, að hún hefði neitt fjemætt undir svuntu sinni. Hún gekk því að kaupunum. En þegar út á leið um veturinn, smá-lukust upp augun á griðkonunni, og þóttist hún þá sjá, hvar komið væri. Varð hún þá þögul og fáskiptin, og eins og utan við sig. Sæmundur tók eptir þessu, tók hana tali og gekk á hana um orsökina til fálætis þess, er á hana væri komið. Í fyrstunni vildi hún ekki segja honum það, en að síðustu komst hún ekki undan, og sagði frá öllu greinilega og rjett um kaup sitt við manninn. Sæmundur

ljet hana þá fyrst vita það, að sjer hefði raunar ekki verið dulið ráðlag hennar, enda þó hann hafi ekki skipt sjer af því fyrri. „Vertu ókvíðin“, segir Sæmundur, „jeg skal kenna þjer ráð til „þess, að láta kölska verða af kaupinu. Þú „skalt á morgun biðja hann að sækja vatnið í „hripum, og ganga hjá sáluhliði, annars sje „hann af kaupinu“. Fjósakonan fer, og gjörir allt, sem fyrir hana var lagt. Kölski fer nú með hripin, og rambar eptir vatninu. En er hann kemur að sáluhliði, þá hringir Sæmundur klukkunum, og fór þá allt vatnið niður úr hripunum. Kölski reyndi til þrisvar sinnum, en það fór einatt á sömu leið. Snaraði hann þá frá sjer hripunum í bræði, og hvarf burtu. Fjósakonan ól síðan barn sitt, og vitjaði kölski þess aldrei; en þar á móti hugsaði hann Sæmundi presti gott til glóðarinnar; því hann þóttist eiga honum grátt að gjalda.

### d) Kölski er í fjósi.

Einu sinni vantaði Sæmund fjósamann; tók hann þá kölska, og ljet hann vera í fjósinu hjá sjer. Fór það allt vel, og leið svo fram á útmánuði, að kölski gjörði verk sitt með öllum sóma. En á meðan sjera Sæmundur var í stóln-

um á páskadaginn, bar kölski alla mykjuna í haug fyrir kirkjudyrnar, svo þegar prestur ætlaði út eptir messuna, þá komst hann hvergi. Sjer hann þá, hvað um er að vera, stefnir til sín kölska, og lætur hann nauðugan viljugan bera burtu aptur alla mykjuna frá kirkjudyrunum og á sinn stað. Gekk sjera Sæmundur svo fast að honum, að hann ljet hann seinast sleikja upp leifarnar með tungunni. Sleikti þá kölski svo fast, að það kom laut í helluna fyrir framan kirkjudyrnar. Þessi hella er enn í dag í Odda, og nú þó ekki nema fjórðungur hennar. Liggur hún fyrir framan bæjardyrnar, og sjer enn lautina í hana.

e) Kölski gjörir sig svo lítinn, sem hann gat.

Það var einhverju sinni, að sjera Sæmundur spurði kölska, hvað lítinn hann gæti gjört sig. Kölski sagðist geta orðið eins lítill og mýfluga. Sæmundur tók þá borjárn, og boraði holu í stoð eina, og segir kölska að fara þá þar inn í. Kölski var ekki seinn að þessu, en Sæmundur rak tappa í holuna, og hvernig sem kölski emjaði og skrækti og bað sjer vægðar, þá tók þó Sæmundur ekki tappann úr holunni, fyr en hann hafði lofað honum að þjóna honum og

gjöra ætíð, hvað sem hann vildi. Þetta var orsökin til þess, að Sæmundur gat ætíð haft kölska til hvers, sem hann vildi.

f) Flugan.

Kölska var allt af gramt í geði við Sæmund prest; því hann fann til þess, hversu hann fór allt af halloka fyrir honum. Hann reyndi því með öllum ráðum að hefna sín á honum, þó það vildi ekki heppnast. Einu sinni gjörði hann sig að dálitilli flugu, og lagðist undir skánina á mjólkinni í askinum prestsins, og ætlaði sjer þannig að komast ofan í hann, og drepa hann. En þegar Sæmundur tók askinn, sá hann þegar fluguna, vafði skáninni utan um hana, og svo líknarbelg þar utan um, og ljet böggulinn út á altari. Þar varð flugan að hýrast, á meðan að Sæmundur embættaði næst á eptir. Þegar úti var, leysti prestur upp böggulinn, og sleppti kölska burtu. Er það haft fyrir satt, að kölski hafi aldrei þótzt hafa komizt í verri kröggur, en að liggja á altarinu hjá Sæmundi.

g) Púkablístran.

Sæmundur átti pípu eina, sem hafði þá náttúru, að þegar í hana var blásið, þá komu einn

eða fleiri púkar til hans, og spurðu, hvað þeir ættu að gjöra. Einu sinni hafði Sæmundur skilið pípuna eptir í rúminu sínu, undir höfðalaginu, þar sem hann var ætíð vanur að hafa hana á næturnar. Um kveldið sagði hann þjónustustúlkunni að búa um sig, eins og vant væri, en tók henni vara fyrir því, að ef hún fyndi nokkuð óvanalegt í rúminu, þá mætt hún ekki snerta það, heldur láta það vera kyrrt á sínum stað. Stúlkan fór að búa um, og varð nú heldur en ekki forvitin, þegar hún sá pípuna. Hún tók hana óðar, og skoðaði hana í krók og í kring, og seinast bljes hún í hana. Kom þá undir eins til hennar púki einn, og spurði: „Hvað á jeg að gjöra?“ Stúlkunni varð bilt við, en ljet þó ekki á því bera. Svo stóð á, að um daginn hafði verið slátrað 10 sauðum hjá Sæmundi, og lágu allar gærurnar úti. Stúlkan segir púkanum, að hann eigi að telja öll hárin á gærunum, og ef hann verði fljótari að því, en hún að búa um rúmið, þá megi hann eiga sig. Púkinn fór og kepptist við að telja, og stúlkan hraðaði sjer að búa um. Þegar hún var búin, átti púkinn eptir að telja á einum skæklinum, og var hann þá af kaupinu. Sæ-

mundur spurði síðan stúlkuna, hvort hún hefði fundið nokkuð í rúminu. Hún sagði frá öllu, eins og var, og líkaði Sæmundi vel ráðkænska hennar.

h) Sæmundur kveðst á við kölska.

Einu sinni hafði Sæmundur veðjað við kölska um það, að hann skyldi aldrei geta komið með þann fyrri hluta úr vísu, hvorki á latínu nje íslenzku, sem hann gæti ekki sett botninn í. Sæmundur setti sjálfan sig í veð fyrir þessu, og með því kölska ljek ærinn hugur á að ná í hann, þá sparaði hann ekki tilraunir um þetta. Einu sinni, þegar prestur var á setunum, kom kölski þar, og segir:

*"Nunc tibi deest gramen„.*[1]

Þá segir prestur:

*"Digito tu terge foramen„!*[2]

Í öðru sinni settist kölski á kirkjubustina, og segir:

*"Hæc domus est alta„.*[3]

Þá segir prestur:

*"Si vis descendere, salta„!*[4]

[1]) Ekruhadd (ɔ: gras) þig illilega vantar.
[2]) það er nóg jeg náði' í þig, núna til að skeina mig.
[3]) þetta hús er hátt, það má jeg játa.
[4]) Ofan hrapa' ef enn vilt þú, er þjer bezt að stökkva nú.

Einu sinni var Sæmundur að drekka úr horni, þá kemur kölski þar, og segir:

„*Nunc bibis ex cornu*".[1]

Þá segir prestur:

„*Vidisti, qvo modo* fór nú"?[2]

Kölski segir, að „fór nú" sje ekki latína, og þykist hafa unnið veð. En Sæmundur kvað það ósatt. Þrættust þeir um það lengi, en svo lauk, að Sæmundur sannaði kölska það, að „fór nú" væri latína. „Reynum við þá einu sinni á íslenzku", segir kölski. „Það skal vera", segir Sæmundur, „og byrja þú". Þá segir kölski:

„Allt er runninn út í botn
áttungur með hreina vatn".

Þá segir prestur:

„Allt er vald hjá einum drottn',
á hans náð ei verður sjatn".

Hafði þá kölski enn beðið ósigur fyrir Sæmundi, og er þess ekki getið, að þeir kvæðust á síðan.

i) Óskastundin.

Sæmundur hinn *fróði* sagði, að óskastund væri á hverjum degi, en ekki nema eina *sekúndu* (augnabragð), og tækist mönnum því

[1]) Af horni í þig hellir þú.
[2]) Hvernig sýndist þjer fór nú?

varla að hitta hana. Aðrir segja, að ekki sje óskastund nema á laugardögum einum.

Einu sinni var Sæmundur í baðstofu, þar sem vinnukonur hans sátu. Þá segir hann; „Hana nú, stúlkur, nú er óskastundin, óskið þjer nú hvers, sem þjer viljið". Þá gellur ein þeirra við, og segir:

Eina vild' jeg eiga mjer
óskina svo góða,
að jeg ætti synina sjö
með Sæmund' hinum fróða!

„Og dæir, þegar þú fæðir hinn síðasta", segir Sæmundur; því hann reiddist henni fyrir óskina. Þessi stúlka hjet Guðrún, og varð hún seinnakona Sæmundar prests. Áttu þau saman sjö sonu, eins og hún hafði óskað, en við hinn seinasta dó hún af barnsförum. — Sæmundur geymdi jafnan klæði þau, er hún hafði átt, á meðan hún var vinnukona, og sýndi henni þau iðulega, til þess að lægja í henni rostann; því hún var drambsöm mjög af veg þeim, sem hún var kominn í. Það er eitt sagt til merkis um dramb hennar, að einu sinni kom til hennar fátækur maður, og bað hana að gefa sjer að drekka. Þá segir hún:

„Gakktu í ána, góðurinn minn,
það gjörir biskupshesturinn"!

### *10. Abi male spirite!*

Einu sinni átti pokaprestur nokkur að skíra barn. Það var í þá tíð, er siður var að særa hinn óhreina anda út af barninu, og það á latínu. Þá segir prestur:

„*Abi male spirite*"![1]

En kölski sat úti í einu kirkjuhorninu og gellur við, og segir:

„*Pessime grammatice*"![2]

Þá segir prestur:

„*Abi male spiritu*"![3]

Þá segir kölski:

„Laugstu fyr og laugstu nú"[4].

Þá segir prestur:

„*Abi male spiritus*"![5]

Þá segir kölski, og fór burtu um leið:

„*S' debuisti dicere prius*".[6]

---

1) Burt með þig, illur andur, nú!
2) Afleitur bögubósi' ert þú.
3) Burt með þig, illur anda, nú!
4) Laugstu fyr og laugstu nú.
5) Burt með þig, illur andi, nú!
6) Svo áttir fyrri' að segja þú.

### *11. Ólafur og Helga.*

Maður er nefndur Sigurður, góður bóndi og vel þokkaður. Hann átti efnilega og væna dóttur, sú hjet Helga. Ólafur hjet vinnumaður, ungur maður og efnilegur, og vel að sjer um alla hluti. Hann var prestsson, og var þá faðir hans hniginn mjög á efra aldur, þegar þessi saga gjörðist. Ólafur fjekk skjótt góðan þokka á bóndadóttur, og það orð ljek á, að það væri vingott á milli þeirra. Þótti mönnum vel til fallið, og vildi bóndi, að þau ættust; því hann elskaði þau bæði innilega. Svo bar til eitt sumar, að geldfje bónda hvarf allt, og var þess lengi leitað, en fannst ekki. Sumarið eptir týndust ær bónda, og fór á sömu leið, að þær fundust ekki. Þótti Ólafi það skaði mikill; því hann var mjög húsbóndahollur, og duglegur. Gjörðu menn sjer ýmsar tilgátur um það, hvernig á þessu stæði, en bóndi ljet sjer ekki mikið um verða. Og leið svo nokkra stund, að ekki bar til tíðinda. En um veturnætur bar svo til eitt kveld, að bóndadóttir fór út að gæta að þvotti, og kom ei aptur. Þegar menn fór að lengja eptir henni, var farið að vitja um hana. Sást hún þá hvergi. Síðan var leitað,

og safnað til mönnum, og þrátt fyrir það fannst hún ekki. Þetta fjekk mjög á alla, en þó mest á Ólaf. Hann lagðist í rekkju af sorg, og neytti hvorki svefns nje matar. Eina nótt, þegar sætur svefn hafði runnið í brjóst honum, dreymdi hann, að honum þótti faðir sinn koma til sín og segja: „Mikið ertu huglaus og ístöðu-„lítill, og ekki er það karlmannlegt að leggjast „ráðalaus í rúmið, þó eitthvað gangi á móti. Eða „heldurðu, að guð muni ekki geta greitt úr bág-„indum þínum, þó óvænlega sýnist áhorfast? „Ristu upp, taktu þjer nesti og nýja skó, og haltu „einatt í suður, og hættu ekki, fyr en þú kem-„ur að kringlóttum hól, með lyngbrekkum um-„hverfis. Þar er lækur við hólinn, yfir hann „skaltu fara, og þá muntu komast á götu, sem „þú skalt ganga. Reiddu þig einungis á guð, „og láttu ekki vegalengd nje ófærð snúa þjer „aptur“. Þegar Ólafur vaknaði, reis hann skjótt á fætur og klæddi sig. Bað hann fá sjer nesti og þrenna leðurskó nýja. Bóndi spurði, hvert hann ætlaði, en Ólafur ljezt ekki vita það gjörla. Bóndi segir honum sje bezt að vera heima, og sagðist mundi deyja, ef hann missti Ólaf líka, sem væri nú orðinn sín eina gleði og

ellistoð. Ólafur bað hann að bera sig vel, og örvænta ekki. Síðan fór hann af stað og kvaddi bónda grátandi. Hann fór eptir ávísan draumsins, og gekk einatt í suður. Svona hjelt hann á fram dag og nótt um holt og heiðar, og þótti honum vegurinn ógreiðfær, og gjörðist hann nú mjög göngumóður. Loksins kom hann að hólnum, sem draumurinn hafði tiltekið. Fór hann þá yfir lækinn og kom á götuslóða. Gjörðist hann þá hressari í huga, og hjelt enn lengi á fram. En þegar hann hafði nokkra stund gengið, heyrði hann skammt frá sjer, að hóað var, og það fremur karlmannlega. Nú var liðið mjög á dag. Hann gekk á hljóðið, og sjer, hvar maður mikill vexti og þreklegur rekur lambahóp stóran. Sá hafði öxi reidda um öxl, og var í mórendri vaðmáls-úlpu, með hött síðan á höfði. Ólafur gengur að honum, og kastar á hann kveðju. Hinn tekur því heldur stutt, og spyr, hvað hann sje að fara. Ólafur segist vera að leita að sauðum. „Helldurðu, þeir sjeu hjerna“? segir úlpumaðurinn. „En þú þarft ekki að ljúga að mjer“, segir hann, „því jeg veit, bæði hvað „þú heitir, og að hverju þú leitar. Þú leitar að „Helgu bóndadóttur, en ekki sauðum, og skaltu

„vita það víst, að hún er ekki langt hjeðan „geymd, og færðu hana aldrei framar. Jeg vil „því ráða þjer til að fara sem skjótast heim „aptur, eða jeg neyðist til að láta öxina ríða „í höfuð þjer, þó jeg sje ekki vanur að „vega menn“. „Það er lítil frægð fyrir þig“, segir Ólafur, „að níðast á mjer, vopnlausum „manni og ferðlúnum, og væri það jafnara, að „við glímdum, og reyndum svo með okkur“. Úlpumaður sagði, að svo skyldi og vera, og snaraði frá sjer öxinni. Tóku þeir síðan glímutökum, og gengust að heldur sterklega. Bárust þeir víða og lengi um völlinn, og fann Ólafur, að hjer var við aflsmun að eiga. Sótti hann því ekki fast að, en varði sig einungis, þangað til úlpumaðurinn tók að mæðast; neytti þá Ólafur þess, að hann var glímnari, og feldi hann á hælkrók. Þá sagði úlpumaður, að það væri lítil frægð fyrir hann að fella sig, fimtán ára gamlan ungling. Ólafur kvaðst nú samt mundi nota sjer fallið, og vildi draga úlpumann þangað, sem öxin lá. Úlpumaður spurði, hvað hann ætlaði. Ólafur kvaðst nú mundi neyðast til að vinna á honum, „þó jeg geti líklega sagt það eins satt um mig, og þú áðan, að jeg sje ekki vanur að

vega menn“. Úlpumaður sagði, hann skyldi ekki drepa sig, og kvaðst geta orðið honum að miklu liði. Ólafur ljet þá tilleiðast, því honum leizt ekki ódrengilega á manninn. Hann reisti hann á fætur, og ljet hann vinna sjer hollustu eið. Ólafur bað hann nú segja sjer, hvar hann ætti heima, og hver hann væri. Úlpumaður segir, að hann eigi heima skammt þaðan, og hann sje útilegumaður. „Jeg heiti Kári“, segir hann, „og á jeg gamlan föður og „móður. Tvo bræður á jeg, og eru þeir miklu „eldri og sterkari, en jeg, og en mestu tröll. „Annar þeirra sótti Helgu, og ætlar að eiga „hana, en hún vill ekki þýðast hann, og unir „sjer illa. Er hún höfð í varðhaldi, og sitja „systur mínar opt hjá henni til að hugga hana, „og allt er gjört, til að gleðja hana, sem verð„ur. En það er allt til einskis. Hún neytir „hvorki svefns nje matar, og er orðin náföl „af harmi og sorg. Faðir minn er svo fram„sýnn, að hann vissi allt um ferðir þínar, og „þegar jeg fór til lambanna í dag, fjekk hann „mjer þessa öxi, og sagði mjer, að rjóðra hana „í blóði þínu. Því hann sagði, að þú mundir „koma til mín. Þess vegna veit jeg nú, að

„þjer er bráður bani búinn, ef faðir minn eða „bræður fá færi á þjer. Svo jeg vil nú ráða þjer „til að liggja hjer í lambahúsinu í nótt, og skal „jeg færa þjer nógan mat heiman að". Ólafur segist vilja fara heim með honum, og sjá bræður hans, og sagði, að svo yrði að fara, sem auðið væri. Kári sagði, að hann skyldi þá ráða, „og skal þá eitt yfir okkur báða ganga". Síðan gengu þeir ofan í dalverpi nokkurt. Sá Ólafur þar kotbæ í dalnum, og ekki stóran. Þangað fóru þeir, og sá Ólafur þar gamlan mann úti. Var hann tröllslegur mjög og illúðlegur. Það þóttist hann vita að væri faðir Kára. Ólafur kastaði kveðju á hann, en karlinn ljet, sem hann heyrði það ekki, og leit illu auga til hans og Kára. Kári leiddi Ólaf inn með sjer í bæinn. Voru þar lág og löng göng og niðamyrkur. Þeir komu síðan inn í baðstofu. Þar sá Ólafur stúlkur tvær, unglegar og fagrar ásýndum. Honum leizt vel á þær, og undraðist, hvað vænlegar þær voru, þar sem faðir þeirra var svo ljótur. Í öðrum enda baðstofunnar sá hann afhús dálítið. Þar sat gömul kerling, og heldur ófrýnileg. Kári vísaði Ólafi til sætis, og settist sjálfur hjá honum. Ljet

hann þá sækja mat og gefa honum. Nú kemur gamli karlinn inn, og gengur hann í afhúsið til kerlingarinnar. Skömmu síðar heyrði Ólafur hark mikið í göngunum og skóhljóð. Þar næst sjer hann tvo menn koma inn í baðstofuna. Það voru bræður Kára, og voru þeir honum mjög ólíkir. Líktust þeir meira tröllum, en mennskum mönnum. Þeir ganga inn í húsið til karls og kerlingar, og ljetu, sem þeir sæju ekki Ólaf, en litu reiðuglega til Kára. Ólafur heyrði, að þeir töluðust eitthvað lágt við feðgarnir. Ekki talaði Ólafur orð við nokkurn mann, og ekki yrti heldur neinn á hann. Kári sat líka einatt þegjandi hjá honum. Þegar þeir höfðu setið svona nokkra stund, kemur karlinn fram á pallinn, og segir: „Ætli það „sje ekki komið mál til að fara að hátta?“ Tekur þá Kári í hönd Ólafi, og leiðir hann fram göngin og inn í skála, og segir, þar eigi hann að sofa. Síðan gengur hann burtu. Myrkur var í skálanum og heldur óskemmtilegt, og fannst Ólafi ekki til að gista þar. Nú kemur inn stúlka og dregur vosklæði af Ólafi. Ekki töluðust þau neitt við. En þegar hún var að þerra fætur hans, fannst honum tár drjúpa á

þær. Og um leið og hún fór út, sagði hún ofur lágt: „Vertu var um þig“. En þegar hún var nýskeð farin út, kemur Kári, og segist vilja vera hjá Ólafi um nóttina. „Það þykir „mjer ekki ráðlegt“, segir Ólafur; „því það get„ur orðið okkur báðum til tjóns“. Kári sá, að það var satt, og biður hann að vera varan um sig, og fara í fötin aptur. Hann leggur öxi fyrir framan Ólaf í rúmið, og segir: „Þessi mun „veita þjer trúa fylgd, þó allt annað bregðist, „ef þjer liggur á“. Síðan gengur Kári burt, en Ólafur rís upp og klæðist skjótt. Hann tekur ábreiðuna ofan af rúminu, og vefur henni um handleggi sjer og brjóst. Síðan leggst hann niður, og hefur höndina á axarskaptinu, en lætur hana þó ekki sjást. Þegar hann hafði skamma stund legið svona, heyrir hann mannamál og skóhljóð fyrir framan skáladyrnar. Læzt hann þá sofa, og hrýtur nú mikið. Því næst opnast hurðin, og gamli karlinn kemur inn með sax mikið í hendinni. Annar eldri bróðirinn var með honum, og bar ljós í annari hendi, en hníf í hinni. Þeir nema staðar á gólfinu, og litast um. Þá segir karlinn: „Hann sefur“, og í sama bili veður hann að rúminu, og ætlar að kippa

Ólafi fram á stokkinn. En Ólafur brá við skjótt, og hjó höfuðið af honum. Þá kemur sonurinn, og ætlar að hefna föður síns. En Ólafur ljet skammt á milli verða, áður hann hjó hann banahögg. Í þessu bili kemur hinn eldri bróðirinn inn í skálann, og var þá fremur ófrýnilegur. Ólafur ætlaði nú að vega að honum, en hann var vopnlaus. Snarar hann þá frá sjer öxinni; því hann vildi ekki níðast á vopnlausum manni. Tóku þeir þá fangbrögðum, og glímdu heldur sterklega. Urðu þá sviptingar miklar, og var eins og skálinn ætlaði að ríða niður. Fann Ólafur það skjótt, að hjer var við æði mikinn aflsmun að eiga. Og svo lauk, að Ólafur varð undir. Ætlaði þá hinn að draga hann að öxinni, og drepa hann. En í því bili kemur Kári inn í skálann, og sjer, hvar komið er. Tekur hann þá í bróður sinn, og segir hann skuli hætta þessu. „Á jeg þjer ekki svo „mikið gott að launa“, segir hann, „þar sem „þú hefur viljað gjöra mig að hinum vesta „manni“. Þorði hann þá ekki annað, en láta Ólaf standa á fætur og sverja honum hollustueið. Þakkar þá Ólafur Kára liðveizlu og segir, að hann hafi höggvið æði nærri honum, það

sem jeg hef nú drepið bæði föður þinn og bróður“. Kári segir, að hann hafi orðið að verja hendur sínar, og skuli þeir ekki á það minnast. Leiðir þá Kári Ólaf þangað, sem Helga var. Ætlaði þá Ólafur ekki að þekkja hana. Hún lá á bæn, og flutu harmatár ofan eptir hennar fölnuðu kinnum. En þessi tár snerust nú í fögur fagnaðartár og gleðitár. Hún hafði verið kvennmaðurinn, sem þjónaði honum til sængur. En gamli karlinn hafði staðið í skáladyrunum, til að heyra, hvort þau töluðu nokkuð. Hann hafði með þessu móti viljað svala grimd sinni, og særa hjarta hinnar sorgbitnu meyjar. Ólafur dvaldi nú þarna nokkra daga í góðu yfirlæti. Síðan fór hann heim og tók með sjer Kára og systur hans báðar. Vildi þá bróðir Kára ei vera einn eptir, og fór líka með þeim. Ráku þeir sauðfjeð allt til byggða, og tóku það, sem fjemætt var í kotinu, en lögðu eld í bæinn. Á ferðinni bar ekkert til tíðinda, og komust þau öll með heilu og höldnu heim til Sigurðar bónda. Varð þar mikill fagnaðar fundur, og var slegið upp gleðiveizlu.

Sat Ólafur þar nú um veturinn og fjelagar hans. En um vorið gekk hann að eiga Helgu

bóndadóttur. Tók hann þá jörð, og reisti bú og varð gildur bóndi. Hann gipti báðar systur Kára, og fjekk honum konu. Bróðir Kára kvæntist líka, og settist að búi. Voru þeir æ mestu vinir, Kári og Ólafur, og lifðu lengi, og nutu góðrar elli og almennings virðingar.

---

## 12. *Galdramennirnir í Vestmannaeyjum.*

Þegar svartidauði geisaði yfir Ísland, tóku átján galdramenn sig saman, og gjörðu fjelag með sjer. Þeir fóru út í Vestmannaeyjar, og ætluðu þar að verja sig dauðanum, meðan þess yrði auðið. Þegar þeir sáu, að sóttinni var farið að ljetta af landinu, vildu þeir vita, hvort nokkur maður mundi lifa. Þeir tóku sig saman um að senda einn þeirra á land. Tóku þeir þann til þess, sem hvorki var mestur nje minstur í íþrótt þeirra. Hann fluttu þeir í land, og sögðu, að ef hann yrði ei kominn aptur fyrir jól, mundu þeir senda honum sendingu, sem dræpi hann. Þetta var snemma á jólaföstunni. Maðurinn fór, og gekk lengi, og kom víða. En hvergi sá hann mann; bæirnir stóðu opnir, og önduð lík lágu á víð og dreif í þeim. Loksins

kom hann að einum bæ lokuðum. Hann furðaði sig á því, og nú vaknaði hjá honum von um, að hann mundi finna mann. Hann barði að dyrum, og þar kom út ungleg stúlka, og fríð. Hann heilsaði henni, en hún hljóp um háls honum, og grjet af gleði yfir því, að sjá mann; því hún sagðist hafa hugsað, að enginn lifði eptir, nema hún ein. Hún bað hann að vera hjá sjer, og hann játaði því. Fóru þau nú inn, og töluðu margt saman. Hún spurði hann, hvaðan hann kæmi, og hvað hann væri að fara. Hann sagði henni það, og það með, að hann yrði að koma aptur fyrir jólin. Hún bað hann samt að vera hjá sjer, sem lengst. Aumkvaðist hann svo yfir hana, að hann hjet henni því. Sagði hún honum, að þar nærri væri enginn maður á lífi; því hún sagðist hafa farið vikuleið frá sjer á alla vegu, og engan mann fundið. Nú leið fram undir jólin, og eyjamaðurinn vildi fara. Stúlkan bað hann að vera, og sagði, að fjelagar hans mundu ekki vera svo grimmir að láta hann gjalda þess, þó hann dveldi hjá sjer, einstæðingnum. Ljet hann svo tilleiðast, og nú var kominn aðfaradagur jóla. Þá ætlar hann að fara, hvað sem hún segi.

Hún sjer þá, að nú duga ei bænir lengur, og segir: „Heldurðu, að þú komist út í eyjar í kveld? eða þykir þjer ekki eins gott að deyja hjerna hjá mjer, og deyja einhverstaðar á leiðinni“? — Hann sá, að tíminn var nú orðinn of naumur, og ásetti sjer nú að vera kyr, og bíða dauða síns. Leið nú af nóttin, og var hann mjög daufur, en stúlkan var hin kátasta, og spurði, hvort hann sæi, hvað eyjabúum liði. Hann sagði, að nú væru þeir búnir að senda sendinguna í land, og mundi hún koma í dag. Stúlkan settist nú hjá honum á rúmið sitt, en hann lagðist upp í fyrir ofan hana. Hann sagði, að nú væri sig farið að syfja, og væri það aðsókn. Síðan sofnaði hann. Stúlkan sat á rúmstokknum, og var einatt að smá-vekja hann, og láta hann segja sjer, hvar sendingin væri. En því nær sem hún kom, því fastar svaf hann, og seinast, þegar hann sagði, að sendingin væri komin í landareignina, sofnaði hann, svo hún gat ei vakið hann aptur. Enda leið þá ekki á löngu, áður hún sá gufu mórauða koma inn í bæinn. Gufa þessi leið hægt og hægt inn að henni, og varð þar að mannsmynd. Stúlkan spyr, hvort hún ætli að fara. Sendingin

segir henni allt sitt erindi, og bað hana fara af rúminu, „því jeg kemst ekki upp fyrir þig“, segir hún. Stúlkan segir, að þá verði hún nokkuð til að vinna. Sendingin spurði, hvað það væri. Stúlkan segir, það sje það, að lofa sjer að sjá, hvað hún geti orðið stór. Sendingin játar því, og verður nú svo stór, að hún fyllir upp allan bæinn. Þá segir stúlkan: „Nú vil jeg sjá, hvað lítil þú getur orðið“. Sendingin segist geta orðið að flugu, og í því bregzt hún í flugulíki, og ætlar nú að komast undir hendina á stúlkunni upp í rúmið til mannsins. En þá lendir hún í sauðarlégg, sem stúlkan hjelt á, og fór inn í hann, en stúlkan setti tappa í gatið. Ljet hún síðan legginn með sendingunni í í vasa sinn, og vekur nú manninn. Vaknar hann þá fljótt, og undrast mjög yfir því, að hann lifi enn. Stúlkan spyr hann, hvar sendingin sje. Hann segist ekki vita, hvað orðið hafi af henni. Segir þá stúlkan, að það hafi sig lengi grunað, að ekki mundu þeir vera miklir galdramenn í eyjunum. Varð nú maðurinn mjög glaður, og nutu þau bæði hátíðarinnar með mikilli ánægju. En er leið að nýári, fór maðurinn að verða fálátur. Stúlkan

spurði, hvað að honum gengi. Hann segir, að nú sjeu þeir í eyjunum að búa til aðra sendingu, „og magna þeir hana allir. Hún á að koma hjer á gamlársdag, og þá mun ei gott að forða mjer“. Stúlkan sagði, að ekki gæti hún kviðið því að óreyndu, „og skaltu ekki vera hræddur við sendingar eyjamanna“. Var hún nú hin kátasta, og þótti honum þá skömm að, að bera sig mjög illa. Á gamlársdag segir hann, að nú sje sendingin komin í land, „og miðar henni fljótt, því hún er ákaflega mögnuð“. Stúlkan segir, að hann skuli nú ganga út með sjer. Hann gjörir það. Ganga þau, þangað til þau koma að skógarrunn einum. Þar nemur hún staðar, og kippir upp nokkrum hríslum. Verður þá fyrir þeim hella ein. Hún lyptir upp hellunni, og er þar jarðhús undir. Þau ganga nú ofan í jarðhúsið, og er þar dimmt og ógurlegt. Þar er ein ljóstýra dauf, og logar hún á mannsístru í hauskúpu. Þar liggur karl einn, heldur ógurlegur, í rúmfleti við ljósið. Augun í honum voru eins og blóð, og allur var hann ófrýnilegur, svo eyjamanninum þótti nóg um. Karlinn segir: „það ber eitthvað nýrra við, að þú ert á ferðinni, fóstra. Það er langt síðan

jeg hef sjeð þig, og hvað á jeg nú að gjöra fyrir þig". Stúlkan segir honum þá allt um ferðir sínar, og um manninn, og fyrri sendinguna. Karlinn biður hana að lofa sjer að sjá legginn. Hún gjörir það, og verður þá karlinn allur annar, þegar hann tók við leggnum. Velti hann honum á allar lundir fyrir sjer, og strauk hann allan utan. Þá segir stúlkan: hjálpaðu mjer nú fljótt, fóstri; því nú er manninn farið að syfja, og það er merki þess, að sendingin er senn komin. Karlinn tekur þá tappann úr leggnum, og kemur þá flugan út úr honum. Karlinn strauk fluguna, og klappaði henni, og segir: „Farðu nú og taktu á móti öllum sendingum úr eyjunum, og gleyptu þær". Þá varð brestur mikill, og fór flugan út, og varð þá svo stór, að annar skoltur tók við himin, en annar við jörðu. Tók hún svo á móti öllum sendingum úr eyjunum, og var nú manninum borgið. Fóru þau nú heim aptur úr jarðhúsinu, og settust að á bæ stúlkunnar. Áttust þau síðan, og jukust, og margfölduðust, og uppfylltu jörðina.

---

## *13. Messu-diktur,*

sem nokkrir eigna Hallgrími presti Pjeturssyni.

1. Eðlamaður einn var sá
   áður á tíð, sem hermi jeg frá,
   sínum garði sat hann á,
   sæll í mesta gildi.
   Velgengnin var honum hjá:
   hafði vildi, hafði allt hvað vildi.
2. Velgengnin að villti hann,
   sem verða opt þeim ríka kann;
   forsugur sá fjáði mann
   fáum gott af tærði.
   Lystisemin hann leiddi í bann;
   af lukku stærði, af lukkunni sig stærði.
3. Fór honum sem fleirum þeim,
   sem festa sig við þennan heim:
   varla varð af sælum seim
   saddur hjer á láði;
   hripsaði með höndum tveim
   hverju náði, hverju sem hann náði.
4. En því meir sem aflað fjekk,
   ágirnd vóx í stoltum rekk;
   með Mammon klæddi hann maðka-sekk,
   mjög plægjandi þegna.
   Til sinnar kirkju sjaldan gekk
   sálar vegna, sálar gagnsins vegna.
5. Þá sjaldan að það til bar,
   þessi gekk til kirkjunnar,
   hverjum seinna hann kom þar,
   hvergi skemur tafði.

Beið hann aldrei blessunar;
við borð sitt hafði, við borð sitt hugann hafði.
6. Um miðnættis eina stund,
er hann var í löstum blund,
engill guðs kom á hans fund
með ásján furðu skæra.
Ótta sló yfir auðar lund,
ei sig hræra, ei sig þorði hræra.
7. Signaður engill sagði þá:
„sendur er jeg guði frá,
„vissa að segja þjer sannleiks spá
„synda fyrir þín íýti:
„hölvaða muntu framför fá,
„og fara í víti, fara í heljar víti“.
8. Sveif þá ógn á sofandi þegn,
sem hann væri lagður í gegn,
ofbauð honum hin illa fregn
öllum fram úr máta.
Hvarf þá frá honum mannlegt megn;
maðurinn gráta, maðurinn tók að gráta.
9. Svo leizt honum engil á,
sem eldur gengi hans munni frá.
Hjer við mannsins huga brá,
svo hjartað sárt nam kvíða,
sem döpur sál í djöfla krá
við dauðann stríða, við dauðann ætti að stríða.
10. Hugann þó upp herða vann,
og horfði beint á Legátann.
„Seg mjer, herra“, sagði hann,
„syndir hverjar valda,

„ef hneppast á jeg í heljar bann“?
Hvers að gjalda, hvers á jeg að gjalda“?
11. Engill segir: „Ofdirfð þín
„olli fyrirbúinni pín;
„þín gráðug ofdrykkja gjörir þig svín
„með göldum ofmetnaði.
„En þurftugur kvelst í sorgum sín;
„sálar skaði, sálar það er þinn skaði.
12. „En eitt er þitt þó vammið vest,
„er veldur þinni glötun mest;
„orð drottins ei aðhyllest
„og ert þess foraktari;
„þú hafnar kirkju og hjer með prest
„og helgu altari, helgu guðs altari“.
13. Sorgum sleginn syndarinn
svo þá gjörir í annað sinn
inna til við engilinn:
„Er mjer sýndur voði?
„segðu mjer nú sannleikinn,
„sendiboði, sendi - helgur - boði!
14. „Er þá bótin ei við nein,
„að jeg megi þetta kvein
„nú umflýja' í nokkri grein
„og náð hjá guði finna?
„Himnabúi, ei hug minn leyn
„huggun þinna, huggun orða þinna“!
15. Engill segir: „Ein er bót
„öllu þínu böli á mót,
„ef hvorki sparar þú hönd nje fót
„hjer í lífi þessu,

„og hlýðir vel af hjartans rót
„hverri messu, hverri einni messu.

16. „En bráður sálar bani þinn er,
„ef blessan prests á mis við fer;
„og ef svoddan skömm þig sker,
„að skaparann biðjir þú eigi,
„bölvan ein þá býr með þjer;
„á breiðum vegi, á breiðum gár þú vegi".

17. Helgur engill honum í frá
hvarf þá eptir vitran þá.
Maðurinn líka blundi brá,
bljúgur í geði sínu.
Hugsar eptir harðri spá,
hrelldur pínu, hrelldur kveið við pínu.

18. Talar hann þá við sjálfan sig:
„Sál mín, þú mátt vakta þig!
„hótan guðs er hastarlig;
„hvað skal mig til skoða?
„Sjá þykist jeg sjálfan mig,
„sáran voða, sáran kominn í voða.

19. „Seint hef jeg að góðu gáð,
„guði sje lof fyrir sína náð;
„von er, að nauðsyn verði bráð
„víst mjer betur að hegða.
„Eg skal hafa engils ráð,
„og aldrei bregða, aldrei af því bregða".

20. Síðan breytti sínum hag,
svo sem stendur í mínum brag.
Herrans sjerhvern helgan dag
hann hafði í stærsta gildi;

mjúksinnaður með það lag,
messu vildi, messu hlýða vildi.
21. Illaut síðan þær heillir hann,
hafði það í ábatann:
sannhelgur var sæmdarmann
með siðugum anda fróðum.
Náð hjá guði' og fólki fann,
frægur af góðum, frægur af verkum góðum.
22. Þegar í sóma senn til sanns
svo stóð hagur eðlamanns,
fjell það böl til högum hans
á helgum degi einum:
hann meinti að koma til messu ranns
meður sveinum, meður sínum sveinum.
23. Á hann þungur svefn þá sje,
síðarla mjög vaknaðe
upp þó stóð með andvarpe
í áforminu sig hreysti.
Sínum blakk á bak þá stje,
brátt og þeysti, brátt til kirkju þeysti.
24. Hófa dýri hleypti á skeið
hann, og ákaflega reið.
Mætti honum maður á leið,
sá messulokin sagði.
Ótta sló yfir örva meið
ótt að bragði, ótt að skjótu bragði.
25. Hann bljes við þungt og barmaði sjer:
„Blíður drottinn hjálpi mjer;
„nú fór meir en vilda jeg ver,
„vei mjer aumum manni“!

Hinn nam annsa: „Hvað er þjer?
„Hermdu sanni, herm þú hjer með sanni“.
26. „Er mjer“, sagði hann, „angur og ve,
„að ekki náði jeg messunne;
„hjartans af því harmkvæle
„jeg hef í brjósti mínu.
„Mildur drottinn miskune!
„mjer frá pínu, mjer bjargi frá pínu“!
27. Sá, sem kirkju kominn var frá,
í kampinn tók að brosa þá.
„Vit hef jeg“, sagði' hann, „ekki á,
„því aumlega svo vilt láta.
„Mjer þykir þú eptir þessu sjá
„þurfa í máta, þurfa í öngvan máta“.
28. „Hjor fyrir máttu“, hugsast mjer,
„hyggilega láta þjer
„þú hefur nóg í heimi hjer,
„holds velgengni og prýði,
„í messu ekki matur er,
„menn þó hlýði, menn þó henni hlýði“.
29. Eðlamaður með angur og þjóst
ákaflega sjer barði' á brjóst:
„harla seint jeg heiman bjóst.
„Hvað skal mjer til ráða?
„Aumlega tíðin undan dróst,
„ekki náða, ekki messu jeg náða“!
30. Hann nam annsa, er hryggðir bar:
„Heyrðirðu upphaf messunnar“?
„Já“, hann kvað, „jeg við það var,
„þó varla við eyrun setti“.

„Beiðstu líka blessunar"?
hinn bljúgi frjetti, hinn bljúgi eptir frjetti.
31. „Til samlætis við söfnuðinn,
„fyrir siðasakir", mælti hinn,
„allt fram undir útganginn
„jeg þar kaldur slímdi:
„þá seinasti var sálmurinn
„sunginn, rýmdi, sunginn, jeg þá rýmdi".
32. Eðlamaður annsa vann:
„Inntu mjer það nú fyrir sann:
„hvort brá þjer ei vel við boðskap þann,
„þá blessaður vart af presti"?
Annsaði hinn: „Jeg ei það fann.
„Aumt það nesti, aumt virtist mjer það nesti".
33. Eðlamaður enn þá tjer:
„Jeg spyr, viltu selja mjer
„helgan þá, sem hlotnaðist þjer
„herrans undir messu?
„Minn gangvara í móti ber
„meður sessu, með reiðskap og sessu.
34. Sá, sem kom af kirkju - stig,
kunni að annsa svo fyrir sig:
„Góður maður, gabba' ei mig!
„jeg get þess ei til vona,
„að gersemi þín svo gervilig
„gefir svona, gefir í burtu svona.
35. „Mjer hefur lengi á liprum hest
„leikið hugur allra mest;
„lítið hef jeg lag með prest
„og lærdóm helgra fræða;

„miklu betra mjer sýnest,
„mætti græða, mætti jeg peninginn græða.

36. „En ei fyrir það, ef alvara' er þjer,
„er sá ragur, sem stampinn ber,
„Arons blessan upp á sjer
„ætla jeg lítið hafi.
„Sönn markleysa sýnist mjer
„á sumu skrafi, á sumu presta skrafi.

37. „Látum við þessu þá vera keypt,
„þú sem hefur orðum hreift.
„Jeg tek það upp fyrir háð og heipt,
„ef hestinn fær mjer eigi,
„því undir fæti ei er skreipt
„á okkar vegi, á okkar kirkjuvegi".

38. Eðlamaður annsa rjeð:
„Ei jeg nei við þessu kveð,
„því blessan guðs og miskun með
„mjer kýs jeg til handa,
„sem sálu þinni var sett í veð
„af signuðum anda, af signuðum kennimanns anda".

39. Af baki stje svo búnum jó,
bófinn leiður að því hló;
annað í pung hann augað dró,
sá ógæfunnar gautur.
Fór á bak og fákinn sló:
„Farvel nautur, farvel kaupanautur".

40. Eðlamaður, í anda hress,
arkaði heim til kirkju' og prests,
bljúgur söng þar bænarvers,
að blessunar mætti' hann njóta

og allra gæða altaress,
sem um eilífð hljóta, sem um eilífð góðir hljóta.

41. Seint að koma í söngva stað,
sjer ljet aldrei verða það
upp frá því, og ætíð bað
öndu sinni vægðar.
Með æru fjekk svo útlifað;
allt til frægðar, allt snerist honum til frægðar.

42. En það hefur hins af ferðum frjetzt,
sem fjekk í burt fyrir söðul og hest
sinnar sálar býtin bezt,
blessan guðs og náðir:
hann sagðist ekki sinna' um prest
nje sæta' hans ráði, nje sæta' hans neinu ráði.

43. Flumús knúði fararskjót,
feigðin keyrði undir þrjót,
renndi svo yfir grund og grjót
gjarða fíl á hlaupi;
riddarinn steytti í stigreip fót,
stærði af kaupi, stærði sig af kaupi.

44. Sem hann keikur sat á blakk,
í síður báðum höndum stakk,
gefandi sinni gæfu þakk,
hún gjörði' honum slíkt að lána,
foldin undan fáknum sprakk,
fjell í gjána, fjell þar allt í gjána.

45. Í því hesturinn á fram stökk,
aulinn niður á höfuðið hrökk;
gryfjan var svo djúp og dökk,
að djöfullinn greip að róu;

ofan á móti allt þá sökk,
árar drógu, árar niður drógu.

46. Afdrif hans svo urðu ljót:
ofan fór kvikur á djöfla mót,
í myrkra landi festi fót,
hjá fjandanum hann gisti;
aldrei fjekk á bölinu bót;
blessan missti, blessan drottins missti.

47. Hjer af ráða maður má,
hvað misjafnt horfa forlög á;
sá sem að ráðum guðs vill gá
og gjöra' hans orðum trúa,
gljúphjartaður girnist sá
frá glæpum snúa, frá glæpum öllum snúa.

48. Við syndir verður ei sálu' hans meint,
sje umbótar áform hreint:
þó hjer komi' að sumum seint,
sje það í góðu tómi,
víst og drjúgum var það reynt,
það verður að dómi, það verður að læknisdómi.

49. Mærð jeg nefni Messudikt;
mætt er efnið og hyggjuligt,
þeim mun ei í þanka hryggt,
sem þylja' hann sjer fyrir munni.
Dverga stefnu í þögn er þrykkt,
frá þornuðum brunni, frá þornuðum geng jeg brunni.

50. Virðing þætti víst mjer að,
ef vildu börnin læra það
sóknar minnar, sem jeg kvað,
minn sveiti' er þá borgaður.
Sjerhver frómur í sínum stað
sje hann blessaður, sje hann æ blessaður.

## *14. „Sagan af Bjarna Sveinssyni og Salvöru systur hans“*

Maður hjet Sveinn. Hann var bóndi norður í Skagafirði. Kvæntur var hann, en ekki er þess getið, hvað kona hans hjet. Sveinn var maður vel efnaður. Hann átti tvö börn, sem sagan nefnir. Hjet sonur hans Bjarni, en Salvör dóttir. Þau voru tvíburar, og unntust mjög. Þau voru þá um tvítugt, er þessi saga gjörðist. Eitt vor um Jónsmessu fóru margir Skagfirðingar á grasafjall. Sveinn bóndi ætlaði líka að láta Bjarna son sinn fara. En þegar Salvör heyrði það, vildi hún líka fara. Foreldrar hennar vildu það ei, en ljetu þó loks tilleiðast fyrir bænastað hennar. Áttu nú bæði systkinin að fara á grasafjallið. En nóttina áður en þau fóru, dreymdi Svein bónda, að hann þóttist eiga fugla tvo hvíta, og þótti honum mjög vænt um fuglana. Þóttist hann nú missa kvennfuglinn, og saknaði hans mjög. Sveinn rjeði svo draum sinn, að hann mundi bráðum missa dóttur sína, og fjekk það honum áhyggju mikillar. Vildi hann nú ei, að hún færi á grasafjallið, en hún linnti ekki fyr, en hún fjekk að fara. Fóru þau nú systkinin, og segir ekki af ferðum þeirra.

Gengu þau hinn fyrsta dag, og tíndu grös, eins og aðrir. En um nóttina varð Salvöru snögglega íllt, og gat hún ekki farið með fólkinu. Varð þá Bjarni eptir hjá systur sinni. Liðu þrír dagar, að Salvöru þyngdi einatt, og var Bjarni hjá henni. En hinn fjórða daginn fjekk hann annan mann, til að vera hjá systur sinni, og gekk einsamall frá tjaldinu. Þegar hann hafði tekið grös í tínupoka sinn, settist hann undir stein einn mikinn, og studdi hönd undir kinn. Var hann að hugsa um sýki systur sinnar, og var mjög hugsjúkur og áhyggjufullur. En er hann hafði þar litla stund setið, heyrir hann dyn mikinn. Litast hann þá um, og sjer, hvar tveir menn koma ríðandi. Þeir riðu mikinn, og stefndu að Bjarna. Reið annar þeirra rauðum hesti, og var hann á rauðum klæðum. Hinn var á dökkum klæðum, og reið brúnum hesti. Þeir stigu af baki við steininn, og heilsa Bjarna með nafni. Spurði þá rauðklæddi maðurinn, hvað að honum gengi. Bjarni vildi ekki segja það. Hinn rauðklæddi maður segir, að hann muni ei hafa verra af því, þó hann segi sjer það. Bjarni segir honum þá frá sýki systur sinnar. Segir hann, að nú ætli samferðamennirnir

að fara að fara heim, „og má jeg þá verða hjer einn eptir hjá systur minni, og veit jeg ei, nær hún deyr í höndum mínum“. „Bágt áttu, Bjarni“, segir hinn rauðklæddi maður, „og vor„kenni jeg þjer þetta. En viltu ekki gefa mjer „systur þína“? „Nei“, segir Bjarni, „það má „jeg ekki. Jeg veit engin deili á þjer, og ei „veit jeg, hvaðan þú ert. Eða hvaðan ertu“? „Þig varðar ekki um það“, segir rauðklæddi maðurinn. Tekur hann þá upp hjá sjer gullroðna silfurdós, og var steinn í lokinu, og segir: „Viltu ekki selja mjer systur þína fyrir dós þessa“? „Nei“, segir Bjarni, „jeg gef þjer hana aldrei, hvað sem þú býður“. „Jæja“, segir maðurinn, „þyggðu samt dósina af mjer til minnis um það, að þú hafir fundið mann á fjöllunum“. Tekur þá Bjarni við dósinni, og þakkar honum gjöfina. Kveðja þá aðkomumennirnir Bjarna, og ríða burtu, en Bjarni fer heim að tjaldinu. Um morguninn fara samferðamenn hans heim, og er hann þá einn eptir hjá systur sinni. Var hann nú mjög hræddur um, að hinir ókunnu menn mundu stela systur sinni, og þorði ei að sofna. Vakir nú Bjarni þann dag allan; en um nóttina sækir mjög svefn á hann, og

leggur hann sig niður hjá systur sinni. Spennir hann þá greipar um hana miðja, og ætlar, að ei skuli hún verða svo burtu numin, að hann verði ekki var við. Sofnar Bjarni nú fast; en er hann vaknar, er systir hans öll á burt. Verður hann nú angráður mjög, og leitar þann dag allan, en finnur hana ei. Tekur hann sig upp, og ríður heim um nóttina, og segir tíðindin. „Þetta grunaði mig snemma“, segir Sveinn, „dregur æ nokkuð til þess, sem verða vill“. Var þá safnað saman mönnum og leitað vandlega, en Salvör fannst eigi að heldur. Þótti mönnum þetta skaði mikill; því stúlkan var efnileg, og allra manna hugljúfi. Líður nú, til þess Bjarni er þrítugur að aldri. Var hann þá kvongaður, og farinn að búa. Eitt haust vantaði sauðamann hans fjeð allt, og leitaði hann þess þrjá daga, en fann ei. Segir þá Bjarni konu sinni að búa til vikunesti handa sjer, og skó góða; því hann kvaðst ætla að leita kinda sinna. Foreldrar Bjarna lifðu þá enn, og báðu þau hann að fara ekki. En hann sagði, þau skyldu vera óhrædd, og vona ekki eptir sjer fyr en að viku liðinni. Eptir það fór hann, og gekk nú samfleytt í þrjú dægur. Kom hann

þá að hellisskúta einum, og svaf þar. Þegar hann vaknaði, var komin niðmyrkurs þoka. Samt hjelt hann af stað, og villtist hann nú skjótt. Gekk hann þá til þess, er hann kom í dal einn allmikinn. Þá var liðið á dag. Þokulaust var niðri í dalnum. Þegar hann kom niður í dalinn, sá hann þar bæ mikinn og reisulegan. Þangað fór hann. Sjer hann þar karla og konur við slátt á engi fyrir utan túnið. Gengur hann þar að, sem konurnar eru. Þær voru þrjár, og var ein þeirra tíguglegri en hinar. Hann heilsar þeim, og spyr, hvort hann muni fá að vera þar um nóttina. Þær segja allar já, og fer ein þeirra heim með honum að bænum. Það var ung stúlka, og ofur lagleg. Það var eins og Bjarna sýndist hún lík systur sinni, þeirri er hann hafði misst á grasafjallinu forðum. Rifjaðist þá allur sá atburður upp fyrir honum, og varð hann angráður með sjálfum sjer, en ljet þó stúlkuna ekki verða vara við það. Koma þau nú heim, og leiðir stúlkan Bjarna inn í bæinn. Voru þar stór hús og falleg. Koma þau nú í herbergi eitt rúmgott og vel vandað. Þar fær stúlkan Bjarna stól, og biður hann bíða sín. Hleypur hún þá út, en

kemur að vörmu spori inn aptur, og setur mat og vín á borðið fyrir Bjarna. Snæðir hann síðan, en að því búnu, biður stúlkan hann ganga til hvílu. Fylgir hún honum nú í hús eitt lítið, og er þar sæng uppbúin. Háttar nú Bjarni, og dregur stúlkan af honum vosklæði, býður honum síðan góðar nætur, og fer burtu. Hugsar hann nú um, hvar hann muni vera, og hvernig á því muni standa, að þessi stúlka hafi svo rifjað upp fyrir sjer harma sína, og skilur ekki í því. Út frá þessum hugsunum sofnar hann, en vaknar við það, að hann heyrir söng uppi yfir sjer. Heyrir hann, að á loptinu uppi yfir rúminu hans er verið að lesa, eins og títt er í sveitum. Sungu þar margir, karlar og konur, og bar þó ein rödd af öllum hinum. Þessi rödd vakti algjörlega upp harma Bjarna, því þar þóttist hann þekkja hljóð Salvarar systur sinnar. Var hann nú nokkra stund að hugsa um þetta, en síðan sofnaði hann aptur, og vissi ei fyr, en litla stúlkan, sem hafði þjónað honum til sængur um kveldið, vakti hann. Kom hún þá með góð klæði, og bað hann fara í þau; því hún sagði, að hann mundi verða þar um daginn; því það var sunnudagur. Fer þá stúlk-

an út. En á meðan Bjarni var að klæða sig, kom inn til hans piltur dálítill. Hann var á grænum klæðiskjól, og að öllu vel búinn. Sveinninn heilsar Bjarna, og er mjög ræðinn við hann. „Hvað ertu að fara“? segir pilturinn. „Jeg er að svipast að fje“, segir Bjarni. „Ekki hefi jeg orðið var við það hjerna í dalnum“, segir pilturinn. „Þú verður hjer kyr hjá okkur í dag; því hann faðir minn ætlar að messa“, segir hann. Í þessu kemur stúlkan inn, og segir: „Sveinn, vertu ekki að neinu bulli við manninn. Ber þá stúlkan á borð fyrir Bjarna. En þegar hann var búinn að snæða, fer hún út. Sjer hann þá fjölda fólks vera að koma, og tekur nú sveinninn í hönd honum, og leiðir hann út í kirkjuna, og vísar honum í sæti. Litast Bjarni nú um, og þekkir hann þá rauðklædda manninn við hliðina á sjer, sem komið hafði til hans á fjöllunum. En það sá hann var presturinn, sem þá var á dökku klæðunum. Margir voru í kirkjunni, og voru flestir karlmennirnir illilegir og stórir. Sumir þeirra voru í sauðsvörtum klæðum prjónuðum. Tekur þá Bjarni upp dósina góðu, og býður sessunaut sínum í nefið, og þág hann það. Í framkirkj-

unni sjer Bjarni konu eina tíguglega búna, og þóttist hann þar þekkja systur sína. Þau horfðu hvort á annað, og var eins og hún ýmist brosti, eða grjeti, þegar hún sá hann. Þóttist hann nú sjá, hvernig öllu var háttað, og að hann var kominn til systur sinnar. Leið nú messan, og fór embættisgjörðin ágætlega fram. Eptir blessanina tekur pilturinn í hönd Bjarna, og leiðir hann út. En þegar þeir koma út fyrir dyrnar, situr þar karl einn gamall og illilegur. Hann bregður fæti fyrir Bjarna, svo hann dettur. Hleypur þá pilturinn inn í kirkjuna, að rauðklædda manninum, og sækir hann. Rauðklæddi maðurinn tók þá til karlsins, og dustaði hann til, en pilturinn fór með Bjarna í bæinn. Að litlum tíma liðnum koma þeir þar, rauðklæddi og bláklæddi maðurinn. Þeir heilsa Bjarna vingjarnlega, og spyrja, hvort hann þekki sig. Hann sagði, að svo væri, og var nú heldur fár við; því margt rifjaðist nú upp fyrir honum. En í þessu kemur inn konan, sem hann sá í kirkjunni, og hjelt, að væri systir sín. Hún hljóp í faðminn á Bjarna, og segir: „Í faðmlögum vorum við í móðurlífi, grátandi var jeg þaðan tekin, og nú kem jeg hlæjandi aptur í

faðm þinn, bróðir“! Heilsast þau nú, og verður þar fagnaðarfundur. Sagði hann henni þá allt, sem við hafði borið í Skagafirði, síðan hún hvarf. Þá segir rauðklæddi maðurinn: „Jeg „tók systur þína, Bjarni, úr faðmi þínum forð„um, og gipti hana þessum bláklædda manni. „Hann er sonur minn, og prestur okkar dalbúa, „en jeg er hjer sýslumaður. Nú tók jeg fje „þitt, og villti þig hingað, svo þið gætuð fund„izt, systkinin, og sagt hvort öðru sögu ykkar, „síðan þið skilduð. Á morgun skal jeg fylgja „þjer, og fá þjer fje þitt, en vertu hjer í nótt, „og talaðu við systur þína“. Bjarni gjörir nú þetta. Um morguninn fer hann, og kveður systur sína með mörgum tárum. Rauðklæddi maðurinn fer nú með honum, og reka þeir fjeð saman. Bláklæddi maðurinn var og með þeim, og fylgdu þeir honum ofan undir byggð. Þar skilja þeir, og mæltu til vináttu hvor af öðrum. Segir þá dökkklæddi maðurinn, að hann ætli að senda eptir honum í vor, og skuli hann þá vera ferðbúinn um fardagana; „skaltu búa hjá oss í dalnum“. — Kemur nú Bjarni heim, og segir konu sinni og foreldrum ferðasögu sína og fyrirætlan, en biður þau leyna því. Líður

nú fram að fardögum, þá koma menn þrír með hesta til Bjarna. Fór hann um nóttina með allt sitt bú, karl og kerlingu, konu og börn. Koma þau nú í dalinn, og varð þar fagnaðarfundur. Þar bjó Bjarni lengi. En þegar hann var gamall orðinn, fór hann aptur til Skagafjarðar. Sagði hann þá sögu þessa, og dó síðan í góðri elli.

---

## *15. Suðurferða - Ásmundur.*

Ásmundur hjet maður. Hann var skagfirzkur að ætt. Röskur var hann og atorkumaður mikill, og þá um tvítugsaldur, er þessi saga gjörðist. Ásmundur fór á vetri hverjum suður til sjóróðra, og voru æ sömu menn með honum. Af þessu var hann kallaður *suðurferða*-Ásmundur. Einn vetur fór Ásmundur suður, sem optar, og voru fjelagar hans með honum. Þeir voru um nótt á Melum í Hrútafirði, og ætluðu um morguninn að leggja upp á heiðina. En um nóttina tók Ásmundur sótt mikla, og biðu lagsmenn hans eptir honum þann dag. Ásmundur sagði, að þeir skyldu fara leiðar sinnar, og mundi hann koma á eptir. Síðan fóru þeir,

en Ásmundur varð eptir. Daginn eptir var Ásmundur orðinn albata, og hjelt nú af stað. Var þá veður gott. En þegar hann kom suður á heiðina miðja, gjörði hríð mikla, og sá Ásmundur ekki, hvað hann fór. Villtist hann þá, og er hann sá það, tók hann af hestum sínum baggana og gróf sig í snjóskafl, og hafði baggana fyrir dyrunum. Hestana batt hann á streng. Síðan fór Ásmundur inn í snjóhúsið, og hafði gat á því undan vindi, svo hann gæti sjeð til veðurs. Tók hann þá nesti sitt og fór að borða. En er hann var nýfarinn að borða, kom mórauður hundur að gatinu á snjóhúsinu, og reif sig inn. Rakkinn var ygldur mjög og grimmlegur, og vestnaði þó einatt við hvern bita, sem Ásmundur át. Ásmundi fór ekki að verða um hundinn, og tekur upp hjá sjer sauðarlangglegg einn mikinn, og gefur honum. Rakkinn tók við leggnum, og fór þegar út með hann. En að litlum tíma liðnum kemur mikill maður vexti og ellilegur að dyrunum á snjóhúsinu. Hann ávarpar Ásmund, og þakkar honum fyrir hvolpinn sinn. „Eða ert þú ekki *suðurferða-Ásmundur*“, segir aðkomandinn. „Svo er það kallað“, segir Ásmundur. „Nú býð jeg þjer tvo

kosti", segir aðkomandinn, „annaðhvort að fylgja mjer, eða hríðinni ljettir ei fyr, en þú ert dauður. Því þú skalt vita það, að jeg er valdur að hríð þessari, og því, að þú sýktist; því jeg vildi finna þig, því engan þekki jeg hraustari mann í sveit". Ásmundi leizt nú ekki á blikuna, og sá, að sjer var nauðugur einn kostur. Kvaðst hann þá heldur vilja fara með honum, en láta þar líf sitt í skaflinum. „Kom þú þá", segir aðkomandinn. Ásmundur tók sig nú upp, og var þá ljett upp hríðinni, og komið gott veður. Fer aðkomandinn fyrir, en Ásmundur á eptir með hestana. Ekki vissi Ásmundur, hvað hann fór; því hann var villtur orðinn. Þegar þeir höfðu lengi haldið á fram, verður fyrir þeim dalverpi. Á rann eptir dalnum miðjum, og furðaði Ásmund á því, að öðru megin árinnar var rauð jörð, en hinu megin alhvítt af snjó. Sinn bæ sá hann hvoru megin. Fara þeir nú heim að þeim bænum, sem var í hinum snjófga hluta dalsins. Fer þá karl með hestana í hús, og gefur þeim hey. Síðan leiðir hann Ásmund inn í bæinn, og komu í baðstofu. Þar sá Ásmundur konu eina gamla og unga stúlku, rjett fallega. Ei sá hann fleira fólk. Hann heilsar þeim, og

því næst vísar karlinn honum til sætis. En að litlum tíma liðnum fara þau fram, karlinn og stúlkan. Var þá Ásmundur einn eptir og kerlingin. Kerlingin var einatt að tauta við sjálfa sig, „að aumt væri að vera tóbakslaus“. Ásmundur tekur þá tóbakspund úr veski sínu, og kastar til kerlingar. Tók hún við og varð fegin mjög. Nú koma þau inn, karlinn og stúlkan, og bar hún mat fyrir Ásmund. Ásmundur borðaði, og var karlinn einatt að tala við hann, og var hinn kátasti. Þegar Ásmundur hafði snætt, fór stúlkan burt aptur, og karlinn með henni. Hugsaði nú Ásmundur, að þau mundu vera að taka saman ráð sín, og mundu ætla að drepa sig. Bráðum kemur karlinn aptur, og biður Ásmund að ganga til hvílu. Hann var fús á það, og leiðir karlinn hann fram í skála einn. Þar var sæng uppbúin. Býður nú karlinn honum góðar nætur, og gengur burt, en stúlkan dregur vosklæði af Ásmundi. Ætlar hún að taka sokka hans og skó, og fara burt með þá, en Ásmundur biður hana að gjöra það ekki; því hann óttaðist, að svik mundi þar undir búa. Stúlkan segir, að það sje óhætt; því ei muni honum verða mein gjört. Fer hún svo, og

býður Ásmundi góðar nætur með kossi. Ásmundi þótti þetta undarlegt í útilegumannahúsum, og var ekki trútt um, að honum þætti undarlega góður kossinn stúlkunnar. Sofnar hann nú skjótt, og vaknar við það, að karlinn stendur þar hjá honum. Var þá dagur kominn. Karlinn býður honum góðan dag, og segist nú undir eins ætla að biðja hann þess, er hann hafi sótt hann til að gjöra. „Svo stendur á“, segir karlinn, „að fyrir 20 árum var jeg í sveit, barnaði „jeg þá systur mína, og flúði jeg síðan, og fór „hingað. Er það systir mín, hin gamla kona, „sem þú sást í gærkveldi, en barn það, sem „við áttum, er stúlka sú, sem þjónaði þjer til „sængur. Þegar jeg kom hjer, voru hjer fyrir „útilegumenn, og bjuggu í bæ þeim, sem þú „hefur sjeð í gærkveldi hinu megin árinnar. Þeir „eru tveir, og búa enn í bænum. Voru þeir „jafnan fjendur mínir, en jeg gat varizt þeim, „þangað til nú. Nú bera þeir mig ofurliði, og „láta allan snjó, sem í dalinn fellur, falla mín „megin árinnar. Hefur það verið vani minn, „að beita sauðum mínum yfir í þeirra land, en „nú er jeg ekki orðinn maður til þess. Jeg „ætla því að biðja þig nú þegar í dag að fara

„með sauði mína yfir ána, og standa þar yfir „þeim. Veit jeg, að þú ert maður hraustur, „enda mun ei af veita. Því koma munu þeir „báðir, fjendur mínir, og ætla, að jeg sje með „fjenu. Þú skalt hafa hund minn þann mó„rauða með þjer, og mun hann duga þjer vel“. Rís nú Ásmundur úr rekkju, og fer með sauðina, en karl fjekk honum kufl sinn til að hafa yfir sjer, og öxi, til að verja sig með. Þegar Ásmundur er kominn yfir ána, hlaupa þeir báðir, útilegumennirnir, á móti honum, og segja: „Feigur er hann nú“; því þeir hugsuðu, að karlinn væri með sauðum sínum. En er þeir koma nær Ásmundi, segja þeir: „Annar er það, en við ætluðum“. Runnu þeir þá til Ásmundar, og rjeðust á hann. Ásmundur sigar Móra á annan þeirra, en ræðst sjálfur mót hinum. Rífur Móri þann á hol, sem hann átti við, og hleypur síðan mót hinum, og vinna þeir á honum báðir, Ásmundur og rakkinn. Er nú Ásmundur hjá sauðunum til kvelds, þá fer hann heim, og finnur karlinn. Hann tekur við Ásmundi vel, og þakkar honum mikillega fyrir dagsverkið. Sagðist hann hafa sjeð til hans, þá er hann hefði verið að drepa þá, útilegumennina. Dag-

inn eptir fara þeir báðir, Ásmundur og karlinn, yfir um ána til bæjarins. Voru þar húsakynni góð og rúmleg. Engan mann fundu þeir þar, en fje mikið. Könnuðu þeir nú bæinn allan. Verður þá fyrir þeim hurð ein, og gátu þeir ekki lokið henni upp. Ásmundur hleypur þá á hurðina, og brýtur hana upp. Var þetta þá afhús eitt lítið, og sjá þeir þar konu eina fríða og fallega. Hún var bundin á hárinu við stólpa einn, og mjög bleik og mögur orðin. Ásmundur leysir hana, og spyr, hvaðan hún sje. Hún segist vera bóndadóttir úr Eyjafirði, og hefðu þeir rænt sjer, útilegumennirnir. Hefðu þeir verið að neyða sig til að eiga annanhvorn þeirra. En af því hún hefði ei viljað það, hefðu þeir bundið sig hjer, og ætlað að láta sig svo viðurkennast. Ásmundur segir henni, hvar komið er, og að hún sje í góðra manna höndum. Verður hún þá glöð, og hyggur sig nú sloppna úr öllum háska. Flytja þeir nú allt úr hinu kotinu í bæ þennan, og sitja þar um veturinn. Líkaði Ásmundi vel við karlinn, og þær stúlkurnar, einkum karlsdóttur. Nam hún ýmsar iðnir að stúlkunni, þeirri eyfirzku. Um vorið segir karlinn við Ásmund, að nú skuli hann

fara heim til sín, en að hausti skuli hann aptur koma í dal þennan, því þá segist hann dauður verða. Segist hann þá biðja hann að taka að sjer dóttur sína og systur, ef hún lifi þá, og eyfirzku stúlkuna. Segir hann, að hann skuli taka það með þeim, sem hann finni hjer fjemætt. Síðan fer Ásmundur burtu, og fer norður í Skagafjörð. Þóttust menn þá hafa heimt hann úr helju; en ekki sagði hann neinum, hvar hann hefði verið um veturinn. Um haustið fór hann aptur burtu, og kom í dalinn til stúlknanna. Urðu þær honum mjög fegnar; því þá var bæði karl og kerling önduð, og höfðu þær dysjað þau á hól einum, þar í hlíðinni. Er nú Ásmundur þar hjá þeim um veturinn. En um vorið tekur hann sig upp, og fer með allt lausafje úr kotinu norður í Skagafjörð. Þar settist hann að búi, og átti karlsdóttur, en eyfirzku stúlkuna gipti hann manni þar í sveitinni; og lýkur hjer sögu suðurferða - Ásmundar.

---

## *16. Útilegumannabæn.*

Skuggavaldl, skjólið þitt
skyggi nú á landið mitt,

svo enginn geti á það hitt
af öðrum landsins lýði;
forða oss stríði, forða oss heljar stríði.!

Það sagði kvennmaður, sem hafði verið einn vetur með útilegumönnum, að þetta vers hefðu þeir sungið á hverju kveldi, og ekkert annað gott orð hefði hún heyrt þá fara með allan veturinn.

---

## *17. Hellismannasaga.*

Það er sögn manna, að á fyrri tímum hafi 18 skólapiltar frá Hólum lagzt út. Segja sumir, að sú hafi verið orsökin, að þeir hafi drepið kerlingu eina á staðnum. Þeir gjörðu þá fjelag með sjer, og hjetu hver öðrum tryggri fylgd, og tóku sjer bólfestu í Surtshelli hjá Kalmannstungu. Þeir höfðu með sjer tvær konur. Sagt er, að þeir hafi átt börn við þeim, en þau hafi þeir öll látið í tjörn eina, sem í hellinum er. Þeir rændu fje manna þar um heiðarnar, og ráku það heim til sín á haustin, svo hundruðum skipti. Sagan segir, að þeir hafi rekið það fram að gati því hinu mikla, sem er á hellinum, skammt fyrir innan dyrnar, og

hrundið því þar fram af, svo ei þyrftu þeir að vera að skera það; því það þótti þeim of mikil fyrirhöfn. Af þessu gjörðust illar heimtur hjá bændum, og báru þeir sig illa, en gátu ei að gjört; því enginn vildi hætta sjer í hendur hellisbúa. Ei er þess getið, að þeir hafi drepið menn, eða rænt bæi, en jafnan voru þeir með vopnum, og margir saman. Ekki fóru þeir dult, og það var siður þeirra, að sækja kirkju að Kalmannstungu. Stóðu þeir á miðju gólfi í röð, og sneru bökum saman. Vopn höfðu þeir á hlið, svo ekki var aðgengilegt fyrir bændur að sækja þá, þó þeir hefðu viljað það. En þó gátu hellismenn ekki varazt svik sveitabúa. Það er mælt, að Hvítsíðingar hafi nú farið að taka saman ráð sín um það, hvernig þessum ránsmönnum yrði stökkt úr nágrenninu, eða bani ráðinn. Gekkst þá bóndasonurinn í Kalmannstungu undir það, að svíkja hellismenn, en áskildi sjer, að bændur ljetu sig einan ráða, og veittu sjer trúa fylgd, þegar hann vildi. þetta var nú gjört. Bóndasonurinn fór á fund hellisbúa, beiddi þá ásjár, og kvaðst vilja ganga í fjelag með þeim. Hellismenn voru ófúsir á að taka við honum, og sögðu, þar mundu svik undir búa. Hann

neitaði því, og vann þeim dýra hollustueiða. Tóku þá hellismenn við honum, því þeim leizt rösklega á manninn, og þótti ódrengilegt að reka þann frá sjer, sem flýði á náðir þeirra, og þeir ættu alls kostar við. Nú var þá bóndason kominn í fjelag hellismanna, og vann það, er þeir vildu. Sámt höfðu þeir jafnan gæzlu á honum, og leið svo hið fyrsta ár, að ekkert sá hann sjer færi á að komast frá þeim, eða vinna þá. Er þá sagt, að hann hafi illa kunnað við sig, þó ei ljeti hann hellismenn verða þess vara. Þegar haustið kom, og vika var til gangna, fóru hellismenn að vana sínum að leita sauða. Allir fóru þeir í för þessa, nema einn var eptir í hellinum hjá konunum. Þeir tóku og bóndason með sjer. Gengu þeir vítt, sem vegir liggja um heiðarnar, og komu með ógrynni fjár aptur. Ráku þeir fjeð heim í Vopnalág, og bjuggust þar um um nóttina, áður en þeir rækju fjeð heim að hellinum til slátrunar. Lögðust þeir allir í röð á lágarharminn, og stungu vopnum sínum niður í kring um sig. Er svo mælt, að lágin dragi nafnið af þessum sið hellismanna. Daginn eptir risu þeir upp, ráku saman fjeð, og fóru heim að hellinum.

Hrundu þeir því ofan af gat-brúninni, og gekk það fljótt. Bóndason gekk og að þessu starfi með þeim, og mátti hann hafa það svo búið, hvort honum fjell það betur eða ver. Eptir þetta settust hellismenn um kyrt, og lifðu, eins og þeim líkaði bezt, um veturinn. Nú fór bóndasyni að gjörast órótt í huga, að hann gat hvorki komizt burt, eða sjeð ráð til að vinna hellismenn. Leið svo veturinn og sumarið fram að hansti. Gjörði þá bóndason sjer upp veiki, og ljezt ei geta farið í sauðaleitina með þeim, og kaus sjer að vera heima, og gæta kvennanna. Ei þótti hellisbúum þetta tryggilegt, en ljetu þó loks til leiðast. Átti þá bóndason að geyma hellisins með konunum. En til þess þeir væru vissir um, að hann stryki ekki, á meðan þeir væru að heiman, skáru þeir hásinarnar sundur að mestu á báðum fótum, og ljetu hann enn vinna sjer eið að því, að ei skyldi hann svíkja þá. Að því búnu fóru hellismenn á braut í sauðaleitina; en bóndason lá í sárum. Konurnar gættu hans, og græddu sár hans. Nú þótti bóndasyni vænlegast að reyna að vinna á hellismönnum, þegar þeir kæmu úr leitinni. Hann skreið því einhverja nóttina burt úr hell-

inum, og vildi þá svo vel til, að hann fann hest skammt þaðan á eyrunum við fljótið. Hann tók hann, og reið til byggða. Ljet hann þá boð ganga um sveitirnar, og stefndi að sjer öllum vopnfærum mönnum. Varð það skjótt margmenni, er hann fjekk, og allir sæmilega búnir að vopnum, eptir því sem auðið var. Sagði þá bóndason þeim ráð sitt, og skoraði á þá að fylgja sjer ódeiglega. Þeir riðu því næst af stað, kveldið sem hann vissi að hellismenn voru vanir að koma í Vopnalág. Hafði hann nú margfalt meira lið, en hellisbúar. Þeir riðu að öðrum enda lágarinnar; þar stigu þeir af hestum sínum, og skyldu nokkrir gæta þeirra, svo hellisbúar gætu ei náð þeim, og komizt undan á þann hátt. Gjörir nú bóndason þá skipun á, er honum þótti bezt. Sagði hann, að nú skyldu þeir ganga hljóðlega eptir lág-inni, og taka vopn öll frá hellismönnum sofandi. Síðan skyldi maður sá, er hann tiltók, ganga að þeim hellisbúa, er lægi í miðjum hópnum, og hefði valnastakk yfir sjer, og höggva af honum höfuðið. Ríður oss mikið á því, segir hann, því sá maður verður oss skæður, ef hann nær að komast á fætur. Hann er hraust-

astur allra hellisbúa, og hafa þeir mikið traust á honum. Hann hefur búið sjer til stakk úr sauðarvölum, og bíta hann engin járn. Þegar hann hafði þetta mælt, gengu þeir allir samt eptir láginni, og sjá nú, hvar hellismenn liggja, og sofa. Fara þá bændur að þeim hljóðlega, og taka vopn þeirra öll. Síðan vegur sá, er til var nefndur, að manninum í valnastakknum, og náði hann ei til, svo höggið kom á annan mann, er næstur honum lá, og tók af höfuðið. Vöknuðu þá hellisbúar við illan draum, og risu upp. Þá segir einn þeirra: „varaðu þig, valnastakkur, fallinn er hann fjögra maki“. Varð nú aðgangur allharður; en af því hellisbúa vantaði vopn sín, gátu þeir ekki staðizt mannfjöldann. Fjellu þeir, hver um annan þveran. Þó gátu bændur ei drepið þá alla þar í láginni, og hlupu þeir víðs vegar, og eltu hinir og drápu þá, þar sem þeir náðu þeim. Þorvaldur var drepinn á Þorvaldshálsi. Geiraldur var drepinn við Geiraldargnýpu norður á Arnarvatnsheiði, Atli við Atlalæk, Ásgeir við Ásgeirsbrunn. Þormóður hjet einn af hellismönnum; hann tók á rás niður allar sveitir, og ofan að Borgarfirði, og eltu menn hann ríðandi og gangandi. Þegar

hann kom að sjónum, lagðist hann frá landi, og svam út í Þormóðssker. Reru þá bændur á eptir. En er hann sá þá koma að skerinu, gekk hann upp á Þormóðsnýpu, og kastaði sjer niður af henni í sjóinn, og hefur ekki skotið upp síðan. Einn af hellismönnum hjet Eiríkur. Honum er viðbrugðið fyrir hreysti og frækleik. Hann hljóp á handahlaupi upp undir jökulinn, og dregur hann síðan nafn af honum, og heitir Eiríksjökull. Eiríkur rann upp gnýpu eina norðan í jöklinum, og voru þá sveitamenn svo nærri honum, að einn hjó til hans, svo af tók annan fótinn í öklastað. En Eiríkur komst samt úr höndum þeirra, og upp á gnýpuna. Þá kvað hann:

Hjartað mitt er hlaðið kurt,
hvergi náir að skeika;
með fótinn annan fór jeg á burt,
fár mun eptir leika.

Bændur urðu þá frá að hverfa; því enginn treystist að renna upp gnýpuna, enda var þeim dauðinn vís, er það hefði reynt.

Gnýpan er nú kölluð Eiríksgnýpa.

Þegar búið var að vinna á hellismönnum, fóru bændur heim að hellinum, og ætluðu að taka konurnar, og það, er þar væri fjemætt.

En konurnar vörðust vel, og báru bæði eld og vatn sjóðandi á þá. Sagan segir, að sveitamenn hafi hjer komizt í mesta hættu, og þeim hafi þótt verra að vinna konurnar, en alla hellisbúa. En þó fór svo, að þær urðu unnar, eins og við var að búast af slíkum mannfjölda; því enginn má við margnum. Ekki er þess getið, hvort þær voru drepnar, eða ekki. Þó er það líklegast. Þess er heldur ei getið, að mikið fjemætt hafi fundizt í hellinum, en það, sem þar var, tóku sveitamenn með sjer. Þeir tóku og sauðfje allt, er þeir fundu, og hellismenn höfðu rekið saman, og fóru heim með það.

Sumir segja, að bóndason hafi með tímanum orðið albata af sárum sínum, og sezt að búi í Kalmannstungu eptir föður sinn, og hafi þar dáið í góðri elli. Aðrir segja, að hann hafi sýkzt stuttu eptir dráp hellismanna, og hafi enginn getað læknað hann. Hann hafi lifað mörg ár við örkuml, og seinast rotnað lifandi, eða visnað, áður hann dó.

Enn aðrir segja öðruvísi frá. Þeir segja, að Eiríkur hafi farið af gnýpunni, þegar sveitamenn voru heim komnir. Þá fór hann til sjávar (segja þeir), og kom sjer í skip með farmönn-

um. Komst hann fljótt í vinfengi skipverja, og varð uppgangsmaður mikill, og siglingamaður. Nokkrum árum eptir þennan atburð kom skip að landi við Reykjavík. Það var kaupskip mikið og fagurt, og hafði mikinn varning og góðan. Keyptu landsmenn fúslega af þeim, og barst það út um landið, að þetta skip gæfi, en seldi ekki. Flykktust þá sveitamenn mjög að skipinu. Þangað fór og bóndinn frá Kalmannstungu, en það var sá, er sveik hellismenn. Þegar hann var kominn út á kaupskipið, kom maður upp á þilfarið, sem landsmenn þóttust ei fyr sjeð hafa. Hann var hár vexti, þreklegur og að öllu hinn knálegasti maður. Hann var á rauðum kyrtli, og gekk á trjefæti. Þessi maður gekk að bóndanum, tók hann með hendinni, og mælti, að allir landsmenn skyldu burt fara, ef þeir vildu halda lífi og limum. Er þá sagt, að bændur urðu hræddir, og hrukku ofan af skipinu, og fóru í land. Sáu þeir þá, að kaupmenn ljettu akkerum þegar í stað, undu upp segl, og ljetu í haf. Þóttust menn nú vita, að hjer mundi verið hafa Eiríkur, og hefði hann ætlað að launa bóndanum svikin. Hann átti og að hafa heitið því, þá er hann stóð á

gnýpunni, að hann skyldi grimmlega hefna hellismanna, þá er hann gæti því við komið. Ekki vissu menn framar um kaupskipið, nje Eirík eða bóndann, eða hverja hegningu hann leið. Og lýkur hjer sögu hellismanna.

---

### 18. *Surtshellir.*

Það er í frásögum haft, að einhverju sinni hafi sakamaður forðað sjer, með því að hlaupa í Surtshelli. Sagan segir, að hann hafi hlaupið dag og nótt, og loks komið upp á Langanesi. Hafi þá skór hans verið fullir með sand; en þegar að var gætt, var það gullsandur. Sagði þá maðurinn, að hann hefði um tíma gengið í sandi miklum, og vaðið hann upp yfir ökla. Hefði það verið líkt og ægisandur á sjávarströnd.

---

Þegar Eggert Ólafsson fór að kanna Surtshelli, var honum sagt, að það væri mesta heimska; því þar byggi alls konar illar vættur og tröll[1]. Surtur átti að vera þeirra mestur og vestur, og við hann átti hellirinn að vera kenndur.

Samanber Landn. Kh. 1843, bls. 199.

[1] Sjá: „Eggert Olavsens Reise igiennem Island", bls. 238, o. s. frv.

## *19. Glímu-Oddur á Hlíðarenda.*

Lengi hafa menn haft þá trú, að í Ódáðahrauni væru útilegumenn, og skal hjer koma saga, er ljóslega sýnir, að svo sje.

Landþingisskrifari Sigurður Sigurðarson bjó á Hlíðarenda í Fljótshlíð. Hann var maður auðugur að fje, og átti margar jarðir norður í Eyjafjarðarsýslu. Hann hafði alið upp pilt þann, er Oddur hjet. Hann var bráðþroska og efnilegur. Hann var þá um tvítugt, þegar þessi saga gjörðist. Einu sinni þurfti Sigurður að senda norður, og ljet hann Odd fara. Oddur hafði þrjá hesta alda til ferðarinnar. Þetta var um Jónsmessu. Sigurður sagði honum, að fara vestur á Kaldadalsveg, og þar norður; því á Sprengisandi mundi vera ill færð og óvegað. Oddur ljezt mundi gjöra svo, sem hann sagði, og fór síðan af stað. En þegar hann var kominn vestur í Eystrahrepp, tók hann það ráð að fara Sprengisand; því honum þótti sá vegur liggja beinna við. Segir nú ekki af ferðum hans, fyr en hann kemur suður á fjöllin aptur. Hefur hann þá Ódáðahraun á vinstri hönd, en Arnarfellsjökul á hægri. Var þá veður gott, og færð hin bezta. En er hann var kominn á

miðjan Sprengisand, sjer hann, hvar maður kemur ríðandi á brúnum hesti austan úr hrauninu og stefnir á hann. Oddur hægir nú á sjer, og þykist sjá, að þetta muni vera útilegumaður. Kemur nú maðurinn að honum, og var hann á sauðsvörtum prjónfötum, með mórauða kollhúfu eða hettu á höfðinu. Aðkomumaður hleypur þegar af hestinum, og ræðst á Odd, og ætlar að setja hann af baki. Oddur hleypur af hestinum, og takast þeir nú á, og glíma. Verða þar nú sviptingar harðar, en að lyktum getur Oddur fellt hinn ókunna mann. Hraunbúi biður hann að gefa sjer líf, en Oddur kvaðst ei þora það; því hann óttist, að hann muni það illa launa. Tekur hann þá stein og fótbrýtur hann, og dregur hann svo á þúfu eina á sandinum. Hann tók hestinn brúna, og fór síðan leiðar sinnar. Þegar hann kom heim, spurðu menn hann tíðinda, og hvar hann hefði fengið brúna hestinn. Oddur sagði, að engin tíðindi hefðu gjörzt í sinni ferð, en hestinn sagðist hann hafa keypt fyrir norðan. Þegar Oddur var kominn yfir sextugt, fór hann til Þorleifs bónda Nikulásarsonar á Háamúla í Fljótshlíð, Þorleifur átti dóttur Sigurðar landþingisskrif-

ara. Var þá Oddur búinn að missa konu sína. Reið hann á sumrum til alþingis með Þorleifi, og fóru þeir opt að loknu þinginu ofan í Reykjavík. Einu sinni bar svo við, að þeir voru í Reykjavík eptir þingið. Höfðu þeir þá komið hestum sínum fyrir í Kópavogi. Einn góðan veðurdag fór Oddur að vitja hestanna. Voru þá mörg tjöld í Fossvogi, og var Oddur að ganga í milli þeirra og skemmta sjer. Kemur hann þá þar að, sem þrír menn sitja vestan í Kópavogshálsi, á grastó einni. Þeir höfðu hesta sína hjá sjer, og höfðu ei sprett af eins og aðrir. Oddur heilsar mönnum þessum, og sjer, að einn þeirra er ellilegur, og hefur bæklaðan fót. Oddur segir, að hann hafi einhverntíma meitt sig í fætinum. Hann segir það satt vera. Rísa þá ferðamennirnir upp, og taka hesta sína. Oddur fer nú leiðar sinnar. Þegar Oddur fór austur, fann hann einhvern gamlan kunningja sinn. Töluðu þeir margt saman, og þá sagði Oddur frá öllum þessum atburðum, og það með, að þetta hefði verið sami maðurinn, sem sat í Fossvogi, og hann glímdi við á sandinum forðum. Oddur andaðist ári síðar á Háamúla í Fljótshlíð.

---

## *20. Ljúflingsmál.*

1. Sofðu, sofðu,
sonur minn.
Sefur selur í sjá,
svanur á báru,
már í hólmi
(manngi þig svæfir),
Sofðu, jeg unni þjer.
2. Kýr á bási,
kálfur við garða,
mús undir steini,
maðkur í jörðu,
otur í gljúfrum.
áll í veisu.
Sofðu, jeg unni þjer.
3. Björn hjá vötnum,
en í björgum skarfur,
refar í reysum,
rár hjá tjörnum,
álpt á ísi
önd í bakka.
Sofðu, jeg unni þjer.
4. Seiður á flúrum,
í sundi murta,
vargur í viði,
í vatni gedda,
hjörtur í heiði,
hreinn í mosa.
Sofðu, jeg unni þjer
5. Nú hef jeg svæfðan
son þinn, kona,
ljúfling okkar,
þó í litlu bragði,
alinn í elli,
allan í hvílu,
og hálfan á jeg hann.

6. Heill hann vakni,
horskur í mörgu,
örr og auðugur,
almanna vinur,
gjarn góðra verka,
guðs fulltrúi,
hóglyndur við hvern,
hollur veslingum.
7. Skurðhagur við skip,
skjóti manna bezt,
upphár á eikum,
þar er aldan glymur;
tafli fulltrúi,
tíður hörpuslætti,
vakur á velli,
vinur höfðingja.
8. Vinheill mönnum,
um lög sjáandi,
svinnur um sáttar,
sí-bókamáll,
rjettur í skyldum
ríkismönnum þekkur;
gjör þú gagn, ef þú mátt,
grönnum þínum.

9. Gæt þess, sonur minn,
hvað gjörist á þíngum.
Vertu fámálugur,
þar er fífl geipa.
Varastu geiplur,
þar er glaðir drekka;
vertu vinur vina,
varastu pretti.

10. Veittu blindum mat,
voluðum hvílu,
hús og heimili
þeim er hafa þurfa.
Sporna við illu
og umgöngu:
opt eyðist það,
er ei varar.

11. Gef til fjölda,
þó þú farir víða,
fremstur af öllum,
þeim er framir heita.
Þiggðu af öngvum,
nema þegar launir.
Sá er vinur flestra,
er sig varar glöggvast.

---

12. Víðar eru vatnsgötur,
vindur tornæmastur,
öl er annar maður,
eldur er viðar fura.
Sæt er synda-ást,
svipul sjávar gjöf,
ljett falla lostverk,
langur er konungs morgun.

13. Örn er ófælnastur,
öldur misjafnastur,
vit er vinsæla,
vænstur er litur gæfa.
Vindur er veðra galli,
valur hvassfleygastur,
gleða glöggskygnust,
Guð er beztur allra.

---

14. Við hirðum um háð ekki,
höfum Pjeturs vitni;
það veitir lið lítið
ljótu að svara hrópi,
fyrir gefum gjarna
grimmar bakslettur.
Einn skal allt dæma
orðum sönnum.

15. Veri nú allir
vinir Ámunda.
Hljóti þeir allir,
sem hlýtt hafa,
góðar heillir
af guði sjálfum,
og um líf ljettara,
sem læra kvæði.

Það segja menn tilefni kvæðis þessa, að bóndi og kona bjuggu á bæ nokkrum; þau áttu eina dóttur barna.

það bar til tíðinda, að bóndadóttir varð þunguð, og ól sveinbarn, en gat ekki feðrað. Við þetta urðu foreldrar hennar afarreiðir, og lögðu fæð á dóttur sína. það var einhverju sinni um kveldtíma, að barnið æpti, og gat móðirin með engu móti huggað það. þá atyrtu hana allir, þeir er við voru staddir, og lagði hver þeirra henni og sveininum eitthvert hnjóðsyrði til, svo hún fór að gráta. þá er mælt að þetta kvæði hafi verið kveðið á glugganum uppi yfir henni og barninu, og hafi það orðið að áhrínsorðum, sem í kvæðinu stendur (6. — 8. erind.), og pilturinn orðið afbragð allra manna, er þá voru uppi. En þegar hann fór að eldast, segir sagan, að hann hafi horfið, og móðir hans með honum, og hafi faðir hans verið ljúflingur (þ. e. huldumaður) sá, sem kvæðið kvað.

---

## *21. Una álfkona.*

Geir er maður nefndur. Hann bjó austur undir Eyjafjöllum á bæ þeim, er Rauðafell heitir, og átti gott bú. Hann var ungur maður og ákafamaður. Hann var þá nýbúinn að missa konu sína, þegar þessi saga gjörðist. það var einu sinni um sumarið um sláttinn, að ljá var orðin mikil hjá rakstrarkonunum; því eptirvinnan var lítil. Sjer hann þá, hvar kona ein kemur í slægjuna, og fer að raka ljána. Hún var ungleg, og vel vaxin. Ekki talaði hún orð við neinn mann, en skjótt gekk þá raksturinn,

er hún var komin. Þótti bónda hún kunna að fara með hrífuna. Burtu hvarf hún um kveldið. Daginn eptir kom hún aptur, og rakaði þann dag allan. Svona gekk þetta allt sumarið, að konan kom og rakaði ljána, en enginn talaði við hana; og enginn vissi, hvaðan hún kom, eða hvert hún fór. Seinasta daginn í slættinum gekk bóndi að henni, heilsaði henni, og þakkaði henni fyrir vinnuna. Hún tók því vel. Þau töluðu lengi saman, og svo fór, að bóndi rjeði hana til sín fyrir bústýru. Síðan hvarf hún á brant. Morguninn eptir var hún komin heim til Geirs, og hafði hún ekki með sjer flutning, nema kistu eina mikla. Kistan var sett í skemmu bónda. Konan tók þá við ráðskonustörfum, og hafði þau um veturinn. Líkaði bónda vel við hana; því hún var rösk vel, og stjórnsöm. Ekki vildi hún segja bónda, hvaðan hún væri komin, en Una kvaðst hún heita. Aldrei fór hún til kirkju, og ámálgaði bóndi það þó opt við hana. Það var það eina, sem bónda líkaði ekki í fari hennar; því hann var maður kirkjurækinn. Nú leið svo fram að jólum. Þá sóttu menn aptansöng, og ljetu einn mann geyma bæjarins. Una vildi ekki fara,

og var það mjög á móti skapi bónda. Varð hún þá ein eptir heima, og segir ekki af henni. Kirkjufólkið kom aptur um morguninn, og var hún þá búin að öllu, sem hún átti að gjöra. Svona dvaldi Una þrjá vetur hjá bónda, og var hún þá orðin honum mjög kær. Var það það eina, sem fældi hann frá að eiga hana, að hún fór aldrei til kirkju, og gramdist honum það mjög. Ýmsar voru getgátur manna um konu þessa, hvaðan hún væri, en það var almanna rómur, að enginn væri þar jafngóður kvennkostur og hún, í þeirri sveit. Líður nú að jólum hinn þriðja vetur, og verður Una enn heima. En þegar kirkjufólkið var skammt á leið komið, verður vinnumanni bónda snögglega íllt. Hann leggur sig þar niður, og kvaðst ætla að vita, hvort ekki liði af sjer ógleðin. Varð hann þar eptir, en bóndi hjelt á fram með hitt fólkið. Þegar vinnumaðurinn sá, að fólkið var komið í hvarf, reis hann á fætur, og sneri heim aptur til bæjarins; því veikina hafði hann gjört sjer upp. Sjer hann þá, hvar Una er að sópa allan bæinn og hreinsa, og keppist mjög við að ljúka starfi sínu. Hann leyndi sjer, og ljet Unu ekki verða vara við sig. Þeg-

ar hún er búin að öllu, sem gjöra þurfti, fer hún út í skemmuna, og lýkur upp kistu sinni. Þar tekur hún upp klæði mjög vönduð, og klæðir sig. Þóttist hann þá aldrei hafa sjeð jafnvænlega konu og fagra. Því næst tekur Una upp feld einn rauðan, og bregður undir hönd sjer. Læsir hún þá kistunni og skemmunni, og gengur út. Rennur hún þá niður völlinn og vinnumaðurinn á eptir. Ekki ljettir Una fyr hlaupunum, en hún er komin að dýi nokkru, þar slær hún út feldinum og stígur á hann. Vinnumaðurinn kemst með naumindum á hornið á feldinum. Líðu þau þá niður í jörðina, og var það líkast reyk, er þau fóru um. Ekki sá Una manninn, og komust þau á völlu nokkra græna. Þá tók Una feldinn og brá undir hönd sjer. Þar sjer vinnumaðurinn bæ mikinn og reisulegan á völlunum. Þangað fór Una, og hann á eptir. Var þar fjölmenni mikið, og kom það út á móti Unu, og tók við henni tveim höndum. Allt var þar búið til veizlu, og fágað og prýtt. Settust menn þá niður, og var matur á borð borinn. Þar koma fram ýmsir rjettir og vín, og allt ríkmannlega. Vinnumaðurinn gat náð einu síðurifi af hangnu

sauðakjöti. Tók hann það, og geymdi; því jafnfeita síðu hafði hann aldrei sjeð fyrri. Þegar menn höfðu matazt, var tekið til að leika ýmsa leiki, og fór það allt fram með list mikilli og snild. En er leið að degi, sagði Una, að nú mundi hún verða að fara; því bráðum kæmi bóndi frá kirkjunni. Kvaddi hún þá alla með miklum virktum, og rann á braut. Vinnumaðurinn fór eptir henni, og komst á feldinn. Liðu þau svo upp aptur um jörðina, og að dýinu. Tekur þá Una feldinn, og fer heim. Gengur hún þá í skemmuna, og læsir klæði sín og dúkinn niður í kistuna aptur. Síðan gengur hún inn í bæinn. Fer þá vinnumaðurinn aptur þangað, er hann hafði eptir orðið um kveldið, og leggst niður. Kemur þá bóndi frá kirkjunni, og finnur hann, og spyr, hvernig honum líði. Vinnumaður segir, að sjer sje að mestu batnað. Gengur hann þá heim með bónda. Fagnar Una þeim vel, og er nú sezt að borðum. Var þar framborið hangið kjöt, eins og siður er til í sveitinni. Tekur þá bóndi sauðarsíðu mikla, og segir: „Hefur nokkur yðar „sjeð jafnmikla síðu, sem þessa“? „Vera má, „að svo sje“, segir vinnumaðurinn, og tekur

fram síðu þá, er hann hafði náð um nóttina. Þegar Una sá það, skipti hún litum, og hvarf þegjandi á burt, og hefur ei sjezt síðan.

---

### 22. *Kaupamaðurinn.*

Einu sinni fór maður sunnan af suðurnesjum norður í land í kaupavinnu. Hann fjekk þoku mikla, þegar norður kom á heiðarnar, svo hann villtist. Gjörði þá og hret og kulda. Lagðist hann þá fyrir, og tjaldaði, þar sem hann var kominn. Tekur hann þá nesti sitt, og fer að snæða. En á meðan hann er að borða, kemur inn rakki mórauður í tjaldið, og er mjög hrakinn og sultarlegur. Sunnlendingurinn undraðist yfir, að þar skyldi koma til hans hundur, er hann átti engra dýra von. Svo var rakkinn ljótur og undarlegur, að honum stóð stuggur af; ei að síður gaf hann honum þó svo mikið af nesti sínu, sem hann vildi. Át hvolpurinn gráðuglega, og fór síðan burt, og hvarf út í þokuna. Maðurinn skipti sjer ekki af þessu, en fór að sofa, þegar hann var búinn að snæða, og hafði hnakkinn sinn undir höfðinu. Þegar hann var sofnaður, dreymdi hann, að kona kom

inn í tjaldið. Hún var mikil vexti, og hnigin á efra aldur. Hún segir: „Jeg þakka þjer, maður minn, fyrir hana dóttur mína, en ekki get jeg launað þjer, sem skyldi. Þó vil jeg, þú þiggir af mjer ljáspík þessa, sem jeg legg hjer undir hnakkinn þinn. Jeg vona, að hún verði þjer að góðu liði, og mun hún eins bíta, hvað sem fyrir verður. Aldrei skaltu eldbera hana, því þá er hún ónýt, en brýna máttu hana, ef þjer þykir þess þurfa". Síðan hvarf konan á braut. Þegar maðurinn vaknaði, sá hann, að upp var ljett þokunni, og albjart. Sól var hátt á lopti. Varð honum þá fyrst fyrir að taka hesta sína, og búast sem fyrst af stað. Tekur hann þá saman tjaldið, og leggur á hestana. En þegar hann tók upp hnakkinn sinn, sá hann þar ljá, svo sem hálfsleginn og allliðlegan, en þó ryðgaðan. Þá man hann eptir draumnum, og hirðir hann spíkina. Fer hann svo braut, og gengur vel. Finnur hann bráðum veginn, og heldur hið skjótasta til byggða. En er hann kom norður, vildi enginn taka hann, því allir voru þá búnir að fá sjer nóg kaupafólk, og líka var nærri því liðin ein vika af slættinum. Hann heyrir þá sagt, að þar sje

kona ein í sveitinni, sem engan kaupamann hafi tekið. Hún var auðug af fje, og þótti hún margt kunna. Hún var ekki vön að taka kaupafólk, og byrjaði aldrei sláttinn, fyr en viku og hálfum mánuði á eptir öðrum, og þó var hún jafnan eins fljótt búin, og aðrir. Þá sjaldan hún hafði tekið kaupamenn, hjelt hún þá ekki nema eina viku, og galt engum kaup. Sunnlendingnum var nú vísað til þessarar konu, og sagt frá siðum hennar. Og af því hann fjekk hvergi vinnu, fór hann til hennar og bauðst að slá hjá henni. Hún tók því vel, og kvaðst mundi lofa honum að vera eina viku, „en ei „geld jeg þjer kaup, nema þú sláir svo mikið „alla vikuna, að jeg geti ekki rakað ljána á „laugardaginn". Þetta þótti honum góður kostur, og fór nú að slá. Tók hann þá spíkina álfkonunaut, og fannst honum hún bíta vel. Aldrei þurfti hann að brýna, og svona slóg hann í 5 daga. Þótti honum hjer gott að vera, og var konan góð við hann. Einu sinni varð honum gengið út í smiðju. Þar sá hann ógrynni af orfum og hrífum, og ljáa bunka mikinn. Furðaði hann sig á þessu, og þótti konan ekki á hjarni með amboð. Á Föstudagskveldið

fór hann að sofa, eins og hann var vanur. Dreymdi hann þá um nóttina, að álfkonan, sú er gaf honum ljáinn, kom til hans, og sagði: „Mikil ljá er nú orðin hjá þjer, en ei mun kon„an, húsmóðir þín, verða lengi að skara henni „saman, og þá rekur hún þig burt, ef hún get„ur náð þjer á morgun. Þú skalt því ganga í „smiðjuna, ef þú heldur, að ljáin ætli að þrjóta, „og taka svo mörg orf, sem þjer lízt, og binda „ljái í þau, og bera þau út í teiginn hjá þjer, „og reyna, hvernig þá fer". Þegar álfkonan hafði þetta mælt, fór hún burt; en kaupamaðurinn vaknaði, og reis á fætur. Fór hann þá að slá. Um miðjan morgun kemur konan út, og hefur hún þá 5 hrífur með sjer. Hún segir: „Mikil er ljáin orðin, og meiri en jeg hugsaði". Lagði hún þá hrífurnar til og frá í teiginn, og fór að raka. Það sá kaupamaður, að mikið rakaði konan, en ei rökuðu hrífurnar minna, og sá hann þó engan. Þegar leið fram að miðjum degi, sá hann, að ljáin ætlaði að þrjóta. Gekk hann þá í smiðjuna, og tók þar orf nokkur, og batt í ljái. Síðan gekk hann út aptur á völlinn, og stráði orfunum til og frá með óslægjunni. Fóru þau þá öll að slá, og stækkaði þá

bletturinn óðum. Gekk þetta daginn allan til kvelds, og þraut eigi ljáin. En þegar kveld var komið, gekk konan heim, og tók hrífur sínar. Bað hún þá kaupamanninn koma líka, og bera orfin heim. Sagði hún, að hann kynni meira, en hún hefði hugsað, og skyldi hann njóta þess, og vera hjá sjer, svo lengi sem hann vildi. Varð hann svo hjá henni um sumarið, og kom þeim vel saman. Heyjuðu þau vel, og fóru þó í hægðum sínum. Um haustið galt hún honum kaup geisi-mikið, og fór hann suður með það. Sumarið eptir var hann og hjá henni, og svo mörg sumur sem hann fór í kaupavinnu. Seinna meir reisti hann bú á Suðurnesjum, og þótti jafnan hinn bezti drengur. Hann var hinn bezti sjómaður, og dugnaðarmaður, til hvers sem hann gekk. Hann gekk ætíð einn að slætti, og hafði aldrei annan ljá, en spíkina álfkonunaut. Þó var hann jafnan eins fljótur og aðrir að slá tún sitt. En ei hafði hann annað gras, en túnið, eins og þar er tíðast. Eitt sumar bar svo við, að hann var róinn til fiskjar. Þá kom nábúi hans til konu hans, og beiddi hana að ljá sjer ljá, til að slá með, því hann sagðist hafa brotið spíkina sína,

og vera ráðalaus. Konan fór að leita hjá manni sínum, og fann spíkina góðu, en engan ljá annan. Hún ljær bóndanum spíkina, en tekur honum vara fyrir að eldbera hana; því það sagði hún að maðurinn sinn gjörði aldrei. Hann lofaði því, og fór heim. Batt hann spíkina í orfið, og fór að slá, en náði engu hári af með henni. Reiddist þá bóndi, og brýndi hana, en það dugði ekki. Fór hann þá í smiðju, og ætlaði að dengja spíkina; því hann hugsaði, að ekki væri mikið í húfi, þó hann eldbæri spík þessa. En undir eins og hún kom í eldinn, rann hún niður sem vax, og varð að gjalli einu. Fór þá bóndi, og sagði konunni, hvar komið var. Varð hún þá hrædd; því hún vissi, að þetta mundi manni sínum líka stórilla, þegar hann vissi það. Það varð og. Þó er þess ei getið, að hann hafi látið það lengi fá á sig, en mikið sá hann eptir spíkinni.

---

## *23. Fardagar álfa.*

Fardagar álfa eru um nýárið. Á nýársnótt fara þeir og flytja sig búferlum. Er það þá, eða var að minsta kosti, siður, að konur og húsmæður ljetu ljós loga í hverju horni, og

hverju húsi á bæ sínum, svo hvergi bar skugga á alla nóttina. Allar dyr áttu að standa opnar, og allt átti að vera sópað og hreint. Gekk þá kona eða húsmóðir sjálf um allan bæ, og mælti: „Veri þeir, sem vera vilja, fari þeir, sem fara vilja, mjer og mínum að meinalausu“.

---

## *24. Galdra-Leifi.*

### a) frá uppvexti Þorleifs og gáfum hans.

Þorleifur hjet maður. Hann var Þórðarson. Hann var fæddur á efsta bænum í Tungunum, eða Hreppunum. Þegar hann var á fyrsta ári sínu, eða ársgamall, og lá í vöggu, þá kom einu sinni stúlka ein ungleg til móður hans; því hún sat hjá barninu. Stúlkan heilsar konunni, og biður hana að hjálpa móður sinni, því hún liggi á sæng, og geti ekki fætt. Konan segist ekki mega fara frá barninu. Stúlkan segist skuli vera hjá því á meðan. Fer þá konan eptir leiðsögu stúlkunnar út fyrir völlinn. Þar kemur hún að hól einum við túnfótinn, og voru dyr opnar á hólnum. Konan fer inn, og kemur þar að, sem kona liggur á gólfi. Hún heilsar henni, og hjálpar henni

þegar. En er hún hafði laugað barnið og reifað, fer hún heim aptur. Sjer hún þá, að stúlkan ókunnuga er að leika við barnið í vöggunni með kæti mikilli, og hló barnið dátt. En þegar móðir Þorleifs kom inn, fór stúlkan undir eins burt. Ólst nú Þorleifur upp hjá móður sinni, og bar snemma á miklum gáfum hjá honum. Var það hald manna, að hann hefði fengið þær af fyrirbænum álfkonunnar. Þorleifur var skáld, og þótti hann krapta eða ákvæða-skáld. Hjeldu sumir, að hann færi með galdur, og kölluðu hann *galdra-Leifa*. Aðrir kölluðu hann *kjapta-Leifa*, því þeir öfunduðu hann fyrir mælsku sína og gáfur. Það er sagt, að Þorleifur heyrði það einhverju sinni, að hann var galdra-Leifi kallaður. Þá kvað hann stöku þessa:

„Þorleifur heiti jeg Þórðarson,
„þekktur af mönnum fínum.
„Hafði jeg aldrei þá heimsku von,
„að hafna skapara mínum“.

Hvergi átti Þorleifur stöðugt heimili, og fór hann milli vina sinna; og sat hjá þeim. Var honum jafnan tekið, sem höfðingja, hvar sem hann kom. Þorleifur orti kvæði, sem heitir Skriptarminning.

b) Tröllkonan.

Norður á afrjett austanmanna var tröllskessa ein. Hún stal sauðum manna, og rænti í byggðinni. Þótti mönnum hún illur gestur þar í nágrenninu, og sögðu þetta Þorleifi. Þorleifur ljet, sem hann heyrði það ei, en nokkru síðar fór hann norður á afrjettina. Gengur hann, þar til er hann finnur skessuna. Þegar hún sjer hann, segir hún: „Ertu kominn hjer, *kjapta*-Leifi? Leggðu ekki til mín, láttu mig vera“. „Farðu þá burtu, og kom þú hjer aldrei aptur“, segir Þorleifur. „Það skal jeg gjöra“, segir hún. „Svíkstu þá ekki um það“, segir hann. Þá segir hún: „Ef ei væri meiri ó-„tryggð hjá yður, mönnunum í sveitunum, en hjá oss, tröllunum í fjöllunum, þá færi betur fram hjá yður, en fer“. Síðan skildu þau, og sást skessan aldrei framar. Hjeldu menn, að hún hefði ekki gefað um að verða fyrir ljóðum eða ákvæðum Þorleifs.

c). Jólanóttin.

Einu sinni var Þorleifur á ferð austur í Ölvesi, og kom hann að bæ til vinar síns á aðfangadagskveldið fyrir jól. Þorleifur biður bónda að lofa sjer að vera um nóttina. Bóndi sagði

honum húsin til reiðu: „en vandkvæði nokkuð er á því, að vera hjer heima þessa nótt; því allir hafa þeir orðið ærðir og trylltir, sem það hafa gjört". „Ekki hræðist jeg það, og mun jeg eigi að síður heima vera, þó svo sje". Fór nú bóndi og menn hans að búa sig til aptansöngs, eins og þá var siður. En svo var háttað, að baðstofa var byggð á palli, og var sinn þverpallur í hvorum enda. Undir öðrum pallinum voru lömb nokkur, sem bóndi hafði tekið frá. En á milli pallanna var svið mikið og rúmgott. Þorleifur ljet nú reka lömbin undan pallinum, og gróf þar gröf í gólfið, svo hann gat staðið niðri í henni. Fór hann þá niður í gröfina, og ljet repta yfir. Gat hafði hann á ræfri gryfjunnar, og gat hann sjeð gegnum það um alla baðstofuna. Því næst ljet hann reka lömbin undir pallinn aptur, og sópa moldtaði yfir gryfjuna, svo ei sást nývirkið. Að þessu búnu fóru allir heimamenn burt til aptansöngsins. Leið svo fram undir miðja nótt, að ekki varð Þorleifur neinnar nýlundu var. En þá sjer hann, hvar koma piltar tveir. Þeir höfðu ljós með sjer, og lýstu vandlega um allan bæinn. Þegar þeir koma á baðstofugólfið, sögðu þeir: „Hjer

er hreint, hjer er heitt, hjer er gott að leika sjer". Síðan fóru piltarnir út aptur. En að litlum tíma liðnum, heyrir Þorleifur undirgang mikinn. Sjer hann þá fjölda fólks koma inn í baðstofuna. Allir voru þeir prúðbúnir. Þeir höfðu með sjer borð eitt, settu þeir það á mitt gólfið. Síðan settu þeir mat og vín á borðið, og tjölduðu innan alla baðstofuna. Settist nú fólkið niður við borðið, og fór að jeta og drekka. Nú koma og inn sveinarnir, sem fyrst komu, og höfðu milli sín karl einn gamlan, og illilegan. Karlinn skyggndist um, er hann kom inn, og þefar í allar áttir, og segir: „Hjer er maður, hjer er maður". Piltarnir sögðu, að þar væri enginn, Settist þá karlinn við borðið, og sveinarnir. Snæddu nú aðkomumenn og drukku með gleði mikilli. En er þeir voru búnir að því, fóru þeir að danza. Þetta ljetu þeir ganga alla nóttina. En er Þorleifur hjelt að dagur væri kominn, drynur hann í holunni: „Dagur, dagur". Varð þá aðkomendum svo bilt við, að hver hljóp út, sem búinn var. Skildu þeir allt eptir, bæði borðið, borðbúnaðinn, tjöldin, og nokkuð af klæðum sínum; því þeir höfðu farið úr þeim um nóttina, þegar þeim fór að hitna

við danzinn. Piltarnir tóku karlinn, og drógu hann milli sín, var hann þá linur, sem lyppukveykur, og bleikur sem nár af ótta. Það sagði Þorleifur, að þegar fólkið ruddist út, hefði það verið, eins og þegar lömbum er hleypt út úr stekkjum. Þegar allir voru út komnir, fór Þorleifur upp úr holu sinni. Var þá skammt að bíða, uns bóndi kom frá kirkjunni. Varð hann þá feginn að finna Þorleif, og þótti nú betur hafa til tekizt, en hann hugsaði. Þorleifur sagði honum allt, sem fyrir hann hafði borið. Bað hann bónda að hirða það, sem álfarnir höfðu eptir skilið, og sagði, að ei mundi þess verða vitjað. Bóndi vildi, að Þorleifur tæki gripina, en Þorleifur vildi ei. Þorleifur sagði, að engum mundi verða hætt á þeim bæ, þó hann væri þar heima á jólanóttina, og rættist það vel.

---

## 25. *Nátttröllið.*

Á einum bæ var það, að sá, sem gæta átti bæjarins á jólanóttina, meðan hitt fólkið var við aptansöng, fannst annaðhvort dauður að morgni, eða æðisgenginn. Þótti heimamönnum

þetta íllt, og vildu fáir til verða að vera heima. Einu sinni býðst stúlka ein til að vera heima. Urðu hinir því fegnir; og fóru burt. Stúlkan sat á palli í baðstofu, og kvað við barn eitt, sem hún hjelt á. Um nóttina er komið á gluggann, og sagt:

Fögur þykir mjer hönd þín,
snör mín, en snarpa, og dillidó.

Þá segir hún:

Hún hefur aldrei saur sópað,
ári minn, Kári, og korriró.

Þá er sagt á glugganum:

Fagurt þykir mjer auga þitt,
snör mín, en snarpa, og dillidó.

Þá segir hún:

Aldrei hefur það íllt sjeð,
ári minn, Kári, og korriró.

Þá er sagt á glugganum:

Fagur þykir mjer fótur þinn,
snör mín, en snarpa, og dillidó.

Þá segir hún:

Aldrei hefur hann saur troðið,
ári minn, Kári, og korriró.

Þá er sagt á glugganum:

Dagur er í austri,
snör mín, en snarpa, og dillidó.

Þá segir hún.

Stattu og vertu að steini,
en engum þó að meini,
ári minn, Kári, og korriró.

Hvarf þá vætturinn af glugganum. En um morguninn, þegar fólkið kom heim, var kominn steinn mikill í bæjarsundið, og stóð hann þar æ síðan. Sagði þá stúlkan frá því, er fyrir hana hafði borið um nóttina, og hafði það verið nátttröll, sem á gluggann kom.

## *26. Gilitrutt.*

Einu sinni bjó bóndi einn ungur austur undir Eyjafjöllum. Hann var ákafamaður og starfsamur. Þár var sauðganga góð, er hann var, og átti bóndi sauðfje mikið. Hann var þá nýkvæntur, er þessi saga gjörðist. Kona hans var ung, en duglaus og dáðlaus. Nennti hún ekkert að gjöra, og skipti sjer lítið af búinu. Þetta líkaði bónda mjög illa, en gat þó ei að gjört. Um haustið fjekk hann henni ull mikla, og bað hana nú að vinna hana til vaðmála; en konan tók ekki líflega undir það. Leið svo fram á veturinn, að konan tók ekki á ullinni, og ámálgaði þó bóndi það opt. Einu sinni kemur kerling ein heldur stórskorin til kon-

unnar, og bað hana að greiða eitthvað fyrir sjer. „Geturðu unnið nokkuð fyrir mig í staðinn“? segir konan. „Til er það“, segir kerling, „eða hvað á jeg að vinna“? „Ull til vaðmála“, segir konan. „Fáðu mjer hana þá“, segir kerling. Konan tekur þá ákaflega mikinn ullarpoka, og fær henni. Kerling tekur við sekknum, og snarar á bak sjer, og segir: „Jeg skal koma með voðina á sumardaginn fyrsta“. „Hvað viltu hafa í kaup“? segir konan. „Það er ekki mikið“, segir kerling, „þú skalt segja mjer nafn mitt í þriðju gátu, og erum við þá sáttar“. Konan játti því, og fer nú kerling burt. Líður nú veturinn, og spyr bóndi opt konuna, hvar ullin sje. Hún segir hann það engu skipta, og skuli hann fá hana á sumardaginn fyrsta. Bóndi ljet sjer fátt um finnast, og leið nú fram á útmánuði. Þá fer konan að hugsa um nafn kerlingar; en þá sjer hún engin ráð til að komast að því. Varð hún nú áhyggjufull og hugsjúk af þessu. Bóndi sjer það, að henni var brugðið, og bað hana að segja sjer, hvað að henni gengi. Hún sagði honum þá alla sögu. Varð þá bóndi hræddur, og segir, að nú hafi hún illa gjört; því þetta muni tröll vera, sem ætli að taka hana.

Einu sinni varð bónda gengið upp undir fjallið, og kom hann á grjóthól einn mikinn. Hann var að hugsa um raunir sínar, og vissi varla af sjer. Þá heyrist honum högg í hólnum. Hann gengur á hljóðið, og kemur að smugu einni. Sjer hann þá, hvar kona ein heldur stórvaxin situr að vef, og hefur hún vefinn milli fóta sjer, og slær mjög vefinn. Hún kvað fyrir munni sjer þetta: Hæ, hæ, og hó, hó! húsfreyja veit „ei, hvað jeg heiti; hæ, hæ, og hó, hó! Gili-„trutt heiti jeg, hó, hó! Gilitrutt heiti jeg, hæ, „hæ, og hó, hó“! Þetta ljet hún ganga, og sló mjög ákaflega vefinn. Bóndi varð nú glaður, og þóttist vita, að þetta mundi vera kerling sú, er hafði fundið konu hans um haustið. Hann fer síðan heim, og ritar hjá sjer á miða nafnið „Gilitrutt“. Ekki ljet hann konu sína heyra það, og kom nú hinn síðasti vetrardagur. Þá var húsfreyja mjög angurvær, og fór hún ekki í klæði sín um daginn. Bóndi kemur til hennar, og spyr, hvort hún viti nafn vinnukonu sinnar. Hún segir „nei“, og kveðst nú ætla að harma sig til dauða. Bóndi segir, að þess þurfi ekki, og fjekk henni blað með nafninu á, og segir henni upp alla sögu. Hún tók við blað-

inu, og skalf af ótta; því hún var hrædd um, að nafnið kynni að vera rangt. Biður hún nú bónda að vera hjá sjer, þegar kerling komi. Hann segir „nei, og varstu ein í ráðum, þegar þú fjekkst henni ullina, svo bezt er, að þú gjaldir ein kaupið". Fer hann burt síðan. Nú kemur sumardagurinn fyrsti, og lá konan ein í rúmi sínu, en enginn var annar í bænum. Heyrir hún þá dunur miklar og undirgang, og kemur þar kerling, og ei frýnileg. Hún snarar inn vaðmálsstranga miklum, og segir: „Hvað heiti jeg nú? hvað heiti jeg nú"? Konan var nær dauða en lífi af ótta, og segir: „Signý"? „Það heiti jeg, það heiti jeg, og gettu aptur, húsfreyja"! segir kerling. „Ása" segir hún. Kerling segir: „Það heiti jeg, það heiti jeg, og gettu enn, húsfreyja"! „Heitirðu ekki Gilitrutt"? segir konan. Kerlingunni varð svo bilt við, að hún datt endilöng niður á gólfið, og varð þá skellur mikill. Rís hún síðan upp, og fór burtu, og sást ekki eptir það. Konan varð nú fegin, að hún slapp frá óvætti þessum, og varð nú öll önnur. Gjörðist hún iðjusöm og stjórnsöm, og vann æ ull sína síðan.

---

## *27. Dalakúturinn.*

Einu sinni voru margir menn á ferð. Þeir tjölduðu á sunnudagsmorgun á fögrum velli grænum. Veður var bjart og fagurt. Þeir lögðust að sofa, og lágu í röð í tjaldinu. Sá, er fremstur lá við dyrnar, gat ei sofnað, og horfði hann um tjaldið. Sá hann þá hláleita gufu vera yfir þeim, er innstur lá. Gufa þessi leið fram tjaldið og út. Maðurinn vildi vita, hvað þetta gæti verið, og fór á eptir henni. Hún leið yfir völlinn hægt og hægt, og kom loks að, þar sem gamall og skininn hrosshaus lá. Þar voru margar maðkaflugur, og þaut mjög í vængjum þeirra. Gufan leið nú inn í hrosshausinn. Að góðum tíma liðnum, kom hún út aptur. Leið hún þá enn eptir vellinum, þangað til hún kom að dálítilli lækjarsprænu, sem rann um völlinn. Hún fór þá niður með lækmun, og var eins og hún vildi fara yfir um lækinn. Maðurinn hjelt á svipunni sinni, og leggur hann hana á lækinn; því hann var ekki breiðari en svo, að skaptið náði á milli bakkanna. Fór þá gufan út á svipuskaptið, og leið á því yfir lækinn. Nú leið hún á fram um hríð, og kom loks að þúfu einni á vellinum. Þar hvarf

hún ofan í þúfuna. Maðurinn stóð skammt frá, og beið þess, að gufan kæmi aptur. Hún kom og bráðum. Leið hún þá hinn sama veg til baka, og hún var komin. Maðurinn lagði svipuna sína á lækinn, og þar fór gufan á, eins og áður. Fór hún nú beint heim að tjaldinu, og nam ei staðar, fyr en hún var komin yfir hinn innsta mann í tjaldinu. Þar hvarf hún. Lagðist þá maðurinn niður, og sofnaði. Að áliðnum degi risu ferðamenn upp, og tóku hesta sína. Töluðu þeir þá margt, á meðan þeir voru að leggja upp. Meðal annars segir sá, er innstur hafði legið í tjaldinu. „Jeg vildi, jeg ætti það, „sem mig dreymdi í dag". „Hvað var það, og „hvað dreymdi þig"? segir sá, er gufuna hafði sjeð. Hinn segir: „Jeg þóttist ganga hjerna út „um völlinn. Kom jeg þá að húsi einu miklu „og fallegu. Þar var fjöldi manna saman kom-„inn, og sungu menn þar, og spiluðu með kæti „mikilli og gleði. Jeg var lengi nokkuð inni í „húsi þessu, en þegar jeg fór út, gekk jeg enn „lengi um sljetta völlu og fagra. Kom jeg þá „að á einni mikilli. Jeg leitaðist lengi við að „komast yfir hana, en gat ekki. Þá sá jeg, „hvar kom ógurlega stór risi. Hann hafði trje

„geisi-mikið í hendinni, og lagði hann það yfir „ána. Fór jeg þá yfir ána á trjenu, og gekk „enn lengi. Kom jeg þá að haugi einum mikl- „um. Haugurinn var opinn, og gekk jeg inn í „hann. Þar fann jeg ekkert annað en tunnu „eina stóra, fulla með peninga. Þar var jeg „lengi, og var jeg að skoða peningana; því slíka „hrúgu hafði jeg aldrei fyr sjeð. Síðan fór jeg „út, og gekk hinn sama veg, og áður fór jeg. „Kom jeg þá að ánni, og þá kom líka risinn „með trjeð, og lagði það á ána. Jeg fór yfir „um, eins og áður, á trjenu, og heim hingað í „tjaldið". Maðurinn, sem elt hafði gufuna, fór nú að verða kátur með sjálfum sjer, og segir: „Komdu, lagsmaður, við skulum sækja snöggv- „ast peningana". Maðurinn fór að hlæja, og hugsaði, að hann væri ekki með öllum mjalla, en fór þó. Ganga þeir nú sama veg, og gufan hafði farið. Koma þeir þá að þúfunni, og grófu hana upp. Þar fundu þeir kút, fullan af peningum. Fóru þeir síðan heim aptur að tjaldinu til lagsmanna sinna, og sögðu þeim upp alla sögu, um drauminn og gufuna.

---

### 28. *Legsteinninn yfir Kjartani Ólafssyni.*

Kjartan Ólafsson er grafinn á Borg á Mýrum. Leiði hans er fyrir þverum kórgafli, og snýr í norður og suður. Það er fullra fjögra álna langt. Á leiðinu liggur rúnasteinn mikill. Það er baulusteinn digur og lítið styttri en leiðið. Rúnirnar á honum eru lítt læsilegar, og sumar með öllu ólæsilegar. Það, sem lesið hefur verið, er svona: „Her hvílir halr Kjartan „Ólafsson". Steinninn er brotinn í sundur í marga búta, og segja menn, að bóndi einn á Borg hafi gjört það. Svo stóð á, að bóndi ætlaði að setja niður smiðju sína fyrir sláttinn eitt sumar. Vantaði hann þá laglega steina í aflinn. Hann tók þá stein Kjartans, og braut hann í sundur, og hlóð aflinn úr brotunum. Um kveldið gekk bóndi til hvílu. Hann svaf einn í dyralopti, en vinnumaður hans svaf í skála eða baðstofu. Um nóttina dreymdi vinnumanninn, að maður kom að honum, mikill vexti og þreklegur. Hann segir: „Bóndi þarf að finna þig á morgun, þegar þú kemur á fætur". Vinnumaður vaknaði um morguninn, og mundi draum sinn, en gaf ekki gaum að honum. Leið svo fram undir dagmál. Fór honum þá að lengja

eptir bónda, og fer til hans. Liggur þá bóndi í rúmi sínu. Vinnumaðurinn spyr, hvort hann vaki. Bóndi segir, að svo sje. „En heyrðu", segir hann, „mig dreymdi í nótt, að það kom „hingað maður upp á loptið. Hann var mikill „vexti og þreklegur, vel limaður og að öllu „hinn ásjálegasti. Hann var í dökkum „klæðum, en ei gat jeg sjeð í andlit hon- „um. Mjer þótti hann segja við mig: „„Illa „„gjörðir þú, er þú tókst steininn minn í gær, „„og brauzt hann í sundur. Hann var sú eina „„minning, sem hjelt nafni mínu á lopti, og „„þessarar minningar gaztu ekki unnt mjer, „„og skal þess grimmlega hefnt. Láttu nú „„þegar brotin út á leiði mitt á morgun í „„þeirri röð, sem áður voru þau. En fyrir „„það, að þú brauzt stein minn, skaltu aldrei „„framar heilum fæti á jörðu stíga"". „Um „leið og hann mælti þetta, snart hann klæði á „mjer, og þá vaknaði jeg, og þoldi ei við fyr- „ir verkjum, en jeg þóttist sjá svip mannsins, „er hann fór ofan af loptinu. Ætla jeg", segir bóndi, „að þetta hafi verið Kjartan, og skaltu „nú taka stein hans, og leggja brotin á leiðið, „eins og áður voru þau". Vinnumaður gjörði það.

Sagan segir, að bóndi hafi aldrei orðið heill heilsu, og jafnan lifað við örkuml.

Betri frásaga í Kvaðabók 4. I, 197. bls.

## 29. *Leiðslan og sjónirnar.*

Einu sinni var prestur. Hann var ágjarn og ranglátur. Svo bar til, að hann var beðinn að skíra barn fyrir fátækan mann. Prestur nennti því ekki, og dó svo barnið óskírt. Eptir þessu var hann í öðrum embættisverkum skeytingarlaus og ósvífinn. Einu sinni var prestur úti í kirkju. Kom þá til hans maður, og bað hann að ganga út með sjer. Prestur gjörði það. Þegar þeir koma út fyrir dyrnar, sjer prestur ker mikið við dyrnar. Það var aflangt, og var blóð öðru megin, en mjólk hinu megin. Prestur undraðist þetta mjög, og það þó mest, að ei skyldi mjólkin og blóðið renna saman, þar sem ekkert skilrúm var þó á milli þess. Hann spurði aðkomumann, hvað þetta þýddi. Aðkomumaður segir, hann skuli seinna vita það. Þeir gengu nú út úr kirkjugarðinum, og koma á völlu eina. Þá kemur fugl fljúgandi, og sezt á höfuð prestinum, og kroppar fast. Prestur ætlar að losa fuglinn úr hári sjer, en gat ekki.

Hann biður aðkomumanninn að hjálpa sjer. En hann sagðist ei mega það, að svo stöddu. Ganga þeir enn nokkra stund, og koma að á einni. Þar sjer prestur foss í ánni, og stendur maður undir fossinum. Sá gín undir bununni, og rennur hún öll ofan í hann; en hvergi sá hann vatnið renna úr manninum. Prestur spurði, hvernig á þessu stæði; en aðkomumaður sagði, hann skyldi fá að vita það seinna. Því næst koma þeir að öðrum fossi. Þar stendur og maður, og gín undir bununni, en vatnið rann út um hann allan, eins og njarðarvött. Ei fjekk prestur að vita, hvað þetta þýddi. Enn gengu þeir, og koma þá í graslendi fagurt og haga góða. Þar sá prestur tvo sauði. Þeir voru allt af að berjast, og vildu reka hvor annan burtu, svo þeir gáfu sjer ei tíma til að bíta, og voru ljótir og horaðir. Þetta þótti presti undarlegt, en fjekk ekki að vita, hvernig á því stóð, eða hvað það þýddi. Hjeldu þeir þá enn lengra, og komu nú á hrjóstruga heiði og graslitla. Var þar varla annað, en grjót og sandur. Þar sá prestur enn sauði tvo. Þeir lágu hvor hjá öðrum, eins og bræður, og voru feitir og fallegir, eins og þeir væru í bezta haglendi. Enn

gengu þeir áfram, og sá þá prestur höll mikla og fagra, svo aldrei hafði hann áður slíkt sjeð. Umhverfis höllina voru grænir vellir, og angaði lyktin af blómunum á vellinum í móti þeim. Þar voru alls konar söngfuglar, og sungu þeir mjög yndislega. Í höllinni sjálfri heyrði prestur glaum og gleði, söng og hljóðfæraslátt. Allt var hjer svo yndislegt og fagurt, að ei mátti hugsa upp meiri fegurð. Prestur segir þá við aðkomumanninn. „Nú ætla jeg ekki að fara lengra, lofaðu mjer að vera hjer“. „Nei, hjer máttu ekki vera“, segir aðkomumaður, „þjer er ætlaður annar staður“. Gengu þeir þá enn nokkra stund. Þá sjer prestur hús eitt. Það var að öllu gagnstætt hinu fyrra. Ódaun lagði þar á móti þeim, allt var andstyggilegt og ljótt. Þá segir aðkomumaður við prestinn: „Hjer skaltu vera. Þetta er sá staður, sem þú og allir illir menn eiga að vera á“. „Æ“, segir prestur, „lofaðu mjer burtu hjeðan, og kenndu mjer ráð til, að þetta verði ekki minn bústaður“. „Það skal jeg gjöra“, segir aðkomumaður, „og vit þú, að þetta er kvalastaður vondra manna, getur þú umflúið hann, með því að bæta ráð þitt, og iðrast illgjörða þinna“. Prestur játti

því. Sneru þeir nú aptur, og komu að hinu fagra húsi. „Þetta er sá staður, sem búinn er góðum mönnum og guðhræddum“, segir aðkommmaður. „En ei máttu hjer vera, nema þú bætir þig“. Síðan koma þeir að sauðunum þeim spöku. „Þetta eru góðir menn og ánægðir“, segir aðkomumaður, „en hinir sauðirnir þýða þá, er einatt vilja meir, og aldrei eru ánægðir. Þeir þrífast aldrei, þó þeir sýnist hafa alls nægtir“. Þessu næst koma þeir að fossunum. Þá segir aðkomumaður: „Hjer sjer þú dæmi þess, er drekkur í sig ranglætið, sem vatn, en lætur það ei festa rætur hjá sjer, en hinn maðurinn er dæmi þess, sem drekkur í sig ranglætið, eins og vatn, og elur það æ með sjer“. Því næst komu þeir að kerinu við kirkjudyrnar. Þá segir aðkomumaður: „Hjer sjer þú blóð það, er þú hefur sogið út af þeim fátæku, og það, er þú hefur tekið af þeim ríku. Það getur aldrei blandazt saman, og máttu nú bæta þeim fátæku, og gjöra meiri jöfnuð á því, er þú tekur af fátækum og ríkum“. „En losaðu nú fuglinn úr hári mínu“, segir prestur við aðkommmanninn. „Það skal jeg gjöra“, segir hann; „en þú skalt vita, að það er hefndarandi

barns þess, er þú synjaðir skírnar". Tók hann þá fuglinn burt, og hvarf; en prestur gekk inn í kirkjuna, og fjell á knje, og baðst fyrir. Gekk hann síðan út, og ætlaði inn í bæinn. Þá mætti honum prestur. Sá heilsar honum, og spyr, hver hann sje. Hinn gamli prestur segir honum það, og spyr, hvernig á honum standi. Hann segist hafa þjónað hjer, síðan presturinn hafi horfið hjerna um árið, „og eru það nú 7 ár", segir hann. Sá þá hinn gamli prestur, að hann hafði verið í þessari leiðslu í 7 ár. Ljet hann sjer sjónirnar að góðu verða, og bætti ráð sitt, og gekk í klaustur.

---

### *30. Syndapokarnir.*

Einu sinni var prestur mjög vandlætingasamur. Hann kenndi mönnum hart, og sagði tilheyrendum sínum hræsnislaust til syndanna. Í sókninni bjó kona ein gömul. Hún kom sjaldan sem aldrei til kirkju, og átaldi prestur hana opt fyrir það, og kvað hún mundi naumast fá inngöngu í himnaríki, ef hún vanrækti svo mjög kirkjuna. Kerling hirti ei um það. Leið svo nokkur tími. Einu sinni sýkist kerling. Lætur

hún þá sækja prest, og biður hann að þjónusta sig; því hún segist vera mjög angruð orðin af illgjörðum mannanna. Prestur bregður við skjótt, og finnur sjúklinginn. Ætlar hann nú að fara að telja um fyrir kerlingu, því hann sá, að hún var mjög angruð. Kerling segir, að hann skuli fyrst heyra, hvað sig angri mest. Prestur játti því, og hlustar nú vandlega á sögu syndarans. Kerling segir þá: „Mig dreymdi fyrir skömmu, „að jeg þóttist koma til himnaríkis. Þar barði „jeg að dyrum, því mjer var kalt, og vildi jeg „komast í húsaskjólið. Þar kom maður til dyra, „og hafði stóra lyklakippu í hendinni. Jeg spurði „hann að heiti. Hann sagðist heita Pjetur. Kann-„aðist jeg þá við manninn, og bað hann að lofa „mjer inn. Pjetur segir „nei, hjer áttu ekki „að vera“. „Æ lof mjer inn, sagði jeg, mjer „er svo ógnarlega kalt; lof mjer rjett inn fyrir „hurðina“. „Nei, það er af og frá“, segir Pjetur. „Jeg sá, að þar var ógnastór skemma á hlað-„inu, og bað jeg þá Pjetur að lofa mjer þar „inn. Það sagði hann jeg skyldi fá, og lauk „nú upp skemmunni. Þá varð jeg fegin, og „hljóp inn, en Pjetur stóð í dyrunum. En „þegar jeg kom inn, sá jeg þar ógnarlega

„stóra hlaða af pokum, stórum og smáum. „Þeir voru allir fullir af einhverju, og bundið „fyrir opin. Þar voru líka sjóvetlingar, og þeir „voru líka fullir sumir, en ekki nema í þuml-„unum á sumum. Jeg spurði Pjetur, hvað í þess-„um pokum væri. Hann segir það sjeu syndir „mannanna. Má jeg ekki fá að sjá pokann „prestsins míns, segi jeg, hann er víst ekki stór". „Nokknð svona", segir Pjetur; „skoðaðu, hann „er þarna", og um leið benti hann mjer á ógn-„arlega stóran sekk. Þá gekk öldungis yfir „mig; því það var langstærsti sekkurinn. Hvaða „ósköp"! segi jeg, „en hvar er pokinn minn „þá, hann held jeg sje ekkert smásmíði". „Jeg „læt það vera", segir Pjetur, og bendir mjer á „einn sjóvetlinginn, sem ofurlítið var í í þumlin-„um. Nú gekk hreint yfir mig, og fór út. Skelldi „þá Pjetur aptur skemmuhurðinni, og hrökk jeg „upp við það. Þetta er nú það, sem angrar mig", segir kerling, „og því ljet jeg sækja yður, að „jeg vildi segja yður frá þessu". Presti fór nú ekki að finnast til, og hafði sig á burt hið skjótasta, og varð ekki af þjónustugjörðinni.

## *31. Þorbjörn Kólka.*

Hafnir er bær nefndur, hann stendur norður á Skaga í Húnavatnssýslu, og er þar bænahús, sem Hofsprestur þjónar nokkrum sinnum á ári. Bærinn í Höfnum stendur reyndar kippkorn frá sjó, en fiskiver er þar gott, sem Hafnir eiga land að við sjóinn, og voru þar margar verbúðir að fornu á Hafnalóð, og kallaðar Hafnabúðir. Nú eru þær flestar svo fallnar, að ekki sjest nema að eins votta fyrir sumum, en af sumum standa þó hálfir veggir upp úr jörðu. Þorbjörn Kólka hjet sá, er fyrstur bjó þar, sem búðirnar voru síðan byggðar; og mun það vera sami maðurinn, sem Landnáma segir að hafi numið Kólkumýrar, og búið þar alla æfi (Ln. Kh. 1843, 184. bls.). Um landnámstímann og löngu þar eptir var sóttur sjór af Hafnabúðum með mesta fylgi, og fóru menn þangað bæði haust og vor til vers úr sveitum; því þar var fiskisælt þá, sem nú. Þorbjörn sjálfur var og hinn mesti sjósóknari, reri hann einn áttæringi, og lengra en flestir menn hafa róið þá eða síðan.

Einn góðan veðurdag var það, að menn reru alskipa frá Hafnabúðum, þeir reru og báðir, Þorbjörn og bóndinn í Höfnum með skipverjum

sínum. Olbogi heitir dýpsta fiskimið, sem róið er á úr verstöð þessari, og er það fullar 3 vikur undan landi. Þangað reru allir þennan dag; því veður var fagurt og blítt, og ólíkt til innanáttar. Þorbjörn reri langt úr öllum fiskileitum, eins og hann var vanur. Leið svo fram um hádegi, að menn sátu að fiskidrætti, og hjelzt enn blíðviðrið; en eptir það fór að draga upp skýbólstra á innfjöllin, leið þá og ekki á löngu, áður skinnaköst fóru að koma á sjóinn, og þyrla upp moldrokum hjer og hvar úr fjöllum; því af Olboga vatnar yfir allt láglendi. Hvessti þá svo óðum, að um miðmundabil var komið særok á landsunnan, og er það rjett um hnífilinn í land af Olboga; enda voru þá allir farnir að leita til lands, nema Hafnamenn, þeir keipuðu einskipa eptir á Olboga.

Litlu síðar sjer Hafnabóndi til Þorbjarnar, og þykir honum vera mikill skriður á skipi hans, og Þorbjörn róa heldur knálega. Þegar hann kemur á bug við Hafnabónda, heldur hann upp árum, og mælti: „Hvort hyggja Hafnamenn að keipa til kvelds“. „Eigi er svo varið“, mælti bóndi, „hitt er heldur, að vjer treystumst ekki að leggja í móti andviðrinu“. Ljet þá Þorbjörn

ferju sinni svífa nær Hafnamönnum, og kastaði til þeirra færisenda sínum, og bað þá á honum lafa. En þeir brugðu endanum utan um allar þópturnar, og tók svo Þorbjörn aptur til ára. Herti þá veðrið því meir, sem á daginn leið. Rjettir Þorbjörn nú fyrst annan fótinn, og þótti Hafnamönnum þá ærinn gangur á skipinu. Hjeldu þeir svo á fram inn á mið það, sem Vatnaslóð heitir, og er það mæld vika sjávar norðan af Olboga. Þótti þá Þorbirni enn seint sækjast róðurinn, svo að hann rjettir nú báða fætur sína, og sagði: „Betur má, ef duga skal, því að mörg verður ekkja á Hafnabúðum í kveld". Reri hann þá bakföllum, og svo sterklega, að skip Hafnamanna var því nær allt í sjó, og stóðu þeir allir í austri. Voru þeir því svo þrekaðir bæði af sjóvolkinu og austrinum, þegar að landi kom, að þeir gátu ekki bjargað skipi sínu undan sjó; bar svo Þorbjörn einn bæði skipin upp í naust. Þá mælti Hafnabóndi: „Til hverra launa lítur þú, Þorbjörn, fyrir það, að þú hefur bjargað lífi voru"? „Alls ekki hef jeg að því hugað", segir Þorbjörn, „og mun jeg ekki mútur taka á afli mínu; en sannast er, að sárna tekur í lófum", og strauk þá um leið. Bóndi þakkar

honum lífgjöfina, og skildu þeir Þorbjörn að því sinni, og gekk bóndi heim til Hafna. Annan dag eptir kom bóndi til Þorbjarnar, færði honum 30 álnir vaðmáls, og bað hann hafa í vetlinga. „Laklega var dregið", sagði Þorbjörn; „því nú vantar í alla þumlana". Bætti bóndi honum þá enn til 10 álnum, og er ekki annars getið, en að Þorbirni hafi þá vel líkað.

Þorbjörn varð sannspár að því, sem hann hafði sagt fyrir um skipreikann; því öll skip týndust í veðrinu, sem róið höfðu af Hafnabúðum um morguninn, nema þau tvö, sem hann reri í land.

Bær Þorbjarnar hjet Kólka, og dró nafn af honum; þar gengur nes út í sjóinn, sem bærinn stóð á, er það hátt og víðsýnt af, og heitir það enn Kólkunes, á nesinu er og hjáleiga frá Höfnum, sem heitir Kólka. Að norðan og austan með nesinu skerst inn vík, og í innanverðum víkurbotninum er sljettur sandur, og gott á land að leggja. Í þeirri vík er lendingin á Hafnabúðum. Að vestanverðu við nesið er sker eitt, hjer um bil 20 faðma frá landi. Skerið er á að geta 20 faðmar á lengd og nanmlega 10 faðmar á breidd, en mjókkar til beggja enda; því bæði

er það hæst og breiðast um miðjuna, og ekki með öllu ólíkt því, sem skip væri á hvolfi. Það er og mál manna, að Þorbjörn hafi hvolft þar ferju sinni, sem nú er skerið, þegar hann gjörðist gamall, og ljet af sjósóknum, og hafi hann mælt svo um, að þegar bænahúsið í Höfnum væri tekið af fyrir fullt og allt, mundi sá maður búa á Kólkunesi, sem bæri gæfu til að hvolfa upp skipinu, og mundi það verða honum eins happasælt, og það hefði verið sjer. Að því mæltu er sagt, að Þorbjörn hafi vaðið til lands, og er þó 5 faðma djúp í sundinu milli skers og lands. Þegar hann var kominn á land frá skipinu, segja menn, hann hafi kveðið vísu til að vísa mönnum á fiskimið það, sem hann var vanur að róa á, og Sporðagrunn heitir; vísan er þannig:

„Mið veit jeg mörg:
„Matklett á Björg,
„hirði jeg ei, þó Kallbak kali
„Kipringsfjall, í Leynidali.
„Komi þá enginn kolmúlugur úr kafi,
„þá mun órdeyða á öllu norðurhafi“.

Ekki vita menn með vissu, hvort nokkur hefur komið á fiskimið þetta, en þó er mælt, að einn maður hafi hitt það síðan, enda hafi þar staðið fiskur á hverju járni á 13 faðma djúpi. En valt er á að ætla, að það hafi verið

mið Þorbjarnar; því að þvermiðin (austurmiðin) ætla menn að vanti í vísuna. „Matklettur“ á líklega að vera sama sem nú er kallað Bjargaklettur (Bjargastapi), en Björg heitir bær í byggðarlagi því á Skaga, sem „í Nesjum“ heitir, og er klettur eða stapi þar fram undan í sjónum, sem dregur nafn af bæ þessum, og heitir Bjargastapi. Þennan stapa má vel kalla „Matklett“, bæði af því, að þar er rituvarp, og af bæjarnafninu „Björg“, því björg er sama sem matur. Þessi klettur (Bjargastapi) mun eiga að jaðra Króksbjarg, sem í vísunni er kallað „Björg“. Króksbjarg er innar með Húnaflóa, en Bjargastapi; mun því eiga að róa beina leið undan miði þessu norður og vestur, á meðan ekki vatnar yfir það, þangað til „Kallbak“ (Kaldbak) kemur í ljós. „Kallbak“ heitir fjall eitt inn á Refasveit á Skagaströnd, og skal þá enn róa, þangað til það fjall „kell (ber í) Kipringsfjall í Leynidali“. „Leynidalir“ munu eiga að vera sama sem Þjófadalir, sem að fornu hjetu „Hvinverjadalir“, norðan undir Langajökli, og á „Kipringsfjall“ líklega að vera eitthvert fjall í þeim eða nálægt þeim; en varla getur „Kipringsfjall“ verið sama sem Tjarnarfjall í Nesjum, eins og sumir segja, því það er svo lágt, að yfir það hlýtur að vatna, þegar svo langt er komið norður í haf, að afstaðan sjáist af Þjófadölum. Eru þetta því allt langmiðin eða suðurmiðin, en ekki þvermiðin eða austurmiðin á Sporðagrunni.

---

